# Ljóða



# Smámunir

af

**Sigurdi Breidfjörd.**



Opt eru kvæda efnin rír
og ekki ástundum parid — —
J. Sigurdsson.



**Kaupmannahöfn.**
Á kostnad A. O. Thorlacius og Br. Benedictsens.
Prentadir hjá S. L. Möller.
1836.

## Kjæra teingdasistir!

Þú! sem mér unntir alls er mér var best,
og ætíd kvaddir hótum trigda vina,
hér vid læt eg þitt heiti vera fest,
og helga þér þannig Ljóda-smámunina.

S. Breidfjörd.

# Firsti Þáttur.

## A. Hugvekjur.

### 1.

Þegar eg smáu fræi í fold fer að sá og hlúa, hugsa' eg þá um þetta hold, sem þar skal dáið búa.

Kornum má eg keldum sá, þó kraftlaus dáin meti, enn vöxt þeim ljá og limi smá lángt er frá eg geti.

Fræið sefur sona hljótt, sast uns vekur skúra, og því gefur gróða og þrótt guðs dóttir náttúra.

Ei er eg minna' enn önnur strá til ódauðleikans borinn, enn öll þau sinni ofku frá endurrísa á vorin.

Og firsti heiið úttaugað endur-klæðir hlíðar, eg skal deija uppá það, að eg lifna síðar.

Hverja stund, með hvaða snið, hinir tímar sína og við hvör undur almættið ofku reisir mína.

### 2. Torfi og Tóa.

Vænt er munn að vanda sinn, og varast talið ljóta, til hvers ertu Torfi minn! tóunni að blóta.

Þó hún deiddi þennann sauð, þvílíkt bralla fleiri, hún á mikið minni auð enn Mr. Torfi' á Eiri.

Þú átt ekkért ektasljóð arfa við að géta, enn hún á sér í holu jóð, hvað eiga þau að eta?

Þú hefur úti allar klær ekki síður enn tóa, veiðir fugl og fénað slær, til fiskjar kjænu að róa.

Faungin heim hún færir slík, og fátæk börnin nærir, þið eruð bæði lindislík, hvað lífs útveg áhrærir.

Af skaparans eg sképnum sé, sem skín og krafta bera, hvørt mun annars eidslu fé ætlad til ad vera.

3.

Legdu þig á ládid hvar lækjar-bunur hvína, fardu so ad þeinkja þar um þig og skøpunina.

Horfdu á jord og himinsfar, hafsins firna díki, gjættu ad rétt hvor þú ert þar í þessu stóra ríki.

Vid þá skodun vinur minn! verdur lindid hægra, og daginn þann mun drambsemin duftinu hreikja lægra.

4. Vidkvæmni.

Medalgata mannsinns er milli anda' og steina, enn oss ad verda einglar hér ei mun tjá ad reina.

Best er ad halda trútt í taum á tilfinníngar meri, hóf-gatan er hál og naum, og hætt vid út af beri.

Enn hagsæld vid þad næst ei nein, sem nátttroll verda ad kletti, so meistarinn finni mikli stein þar mold og anda setti.

5. Kvøld-hugvekja.

Þegar mín er lundin létt, og lídur af þjáníng aungri, augad fæ eg ekki mett inn í stofu þraungri.

Glugginn minn um midja nátt mér þá skémtun géfur, allt er kirt, því einginn hátt um þann tíma hefur.

Jordin er so dimm og døkk, drottnar nóttin þráa, eg því leita augun frøkk upp í loftid bláa.

Stjarna mergd ómætlig mér þar birtu lána, þær í hópum hræra sig hálfann kríngum mána.

Geislar silla augun opt, sem óstirk verda barna; enn sál-in fer þá sjálf á lopt, og sindir á milli stjarna.

Hugmind mín sem hana ber hvessir sjónar glódir, hnøtt í stjørnu hvørri sér, hérá dír og þjódir.

Og þar sér þú andi minn! ifir og kríngum standa hann þann eina, upphafinn eilífa Tilveranda.

Sinda milli handa hanns hnettir og varma lána, níir fljóta fram í stans fornir leika og dána.

Hann er í öllu og allt um kríng ofar bædi og nidur, alltra hnatta uppfillíng, ilur, líf og fridur.

Flugunni sér hann aumur á ad hún lifa meigi, beydir vinda fossum frá, so fjúki í sjóinn eigi.

Il hann gefur ormi smá' undir jardar teigi, ifir kalin andar strá, út af so ei deji.

Þegar eg sé ad hjálpin há hvad eitt so vill stidja, jeg gét aungu annad þá, utan eg fer ad bidja.

Vid mína bæn eg fróun finn, freistni og kvídi þrítur, blessun hanns eg anda inn, ilmur um brjóstid flítur.

Sjá þú hædsta hjálprádid! hvad eru bænir mínar, haltu þessu hjarta vid hugleidíngar þínar.

### 6.

Ef þú mínum óvin hjá íllt um míg villt heira, víni líka vorum þá virdstu ad lána eira.

Hinn sá firri hvörn minn brest á hárinu fram vill teigja, enn annar hvad hann alltra best um mig veit ad seigja.

Þú af beggja sögum sér, ef saman ber þad sladur nákvæmlega, ad eg er ekkért nema madur.

### 7.

Med ervidi þig áttu jördu af ad næra, þó hún kunni þissla ad færa, þar um tjáir ekki ad kjæra.

### 8. Bjargid góda.

Þegar eg margar þrautir sé, þá í huga kémur mér þad bjarg í bláum hlé sem brimid einatt lemur.

Ögna bodar bilta sér bjargsins höfud ifir, firir voda og feikna her furda' er hvad þad lifir.

Þad ei hrærist hót úr stad né hætti breitast lætur, þó ad æristst upp um þad ólgan dag og nætur.

Medan bodar niir ná nídings safna reidi, ránar hroda hvirfli frá hæglátt bjargid greidir.

Þegar mæða mörg og þrá mér vill ofurbjóða, ó! að stæði eg öruggt þá eins og bjargið góða.

9.

Hvað má hreisti í háska ljá sem hugann skapta þreitir? það: að treista öruggt á allra krafta veitir!

Hvað má græða hjartans sár og hugarins allann skaðann? það: til hæða að hefja brár og hjálp ákalla þaðan.

Hvað má stiðja hrjáða önd sem hræðslu kvelur pína? það: að biðja og Herranns hönd hagi fela sína.

## 10. Sumarið.

Vetrar þrimmur slía frá, fagnar guma sægur, allir fuma á fót að sjá firsta sumardægur.

Storma læti þagna, því þiðnar strætið bera, heiraft vætur hólum í hlúnkar nætur frera.

Sínar stordir sólin hlí sælum skorðar rósum þar sem fordum skakinn skí skulfu á norður-ljósum.

Skeiða fara auðar ár, eiðist skára litur, greiðir rara hauður hár, heið andvara þitur.

Sunna háa hefin á hvítum stráir dreiglum, veröld má sinn vænleik sjá í vatna bláum speiglum.

Bárur naumast stumra' úr stað hjá strandar krauma fótum, fiskar laumast fróni að fram í strauma mótum.

Dír af störum næring ná, í nægtum rorum baða, úti' á fjörum fuglar smá í feitum þorum vaða.

Sólin vaungum hlúir hlí, hrindir þraungum dvala, hlíðum laungum einatt í ímur saungur smala.

Verður fríð hin forna jörð, fötum príðist rorum, brjóst um skriður hennar hjörð, hrósar blíðum kjörum.

Allt er kátt um heimsinns hríng heill er brátt að runnin, ó hvað máttug umbreitíng er í náttúrunni.

Mörg eru gjæði minnst hér töld af mar og svæði ríka, hún sem bæði ár og öld eiðir og fæðir líka.

Eins og fúnu urtirnar sem aptur túnin príða, holdsins lúnu leifarnar lífgar hún á síðan.

Meðan þráum heims við hót og harma sáum dalinn, við erum frá á veikri rót vetrar stiái kalinn.

Skeiðið lollum skamsetað, ské opt spjoll á ferdum, síðan follum foldu að, og fis með ollu verðum.

Enn vér skulum aptur stá upp til skaptra gjæða, þá moldir taptar okkar á anda kraptar hæða!

## 11. Veturinn.

Oss að rísa fletum frá framsjón vísa hvetur, fer að lísa um loptin há landi Ísa vetur.

Vindar skeiða fara frí á fjalla breiðum háum, þúngu greiða þokuskí þeir af heiðum bláum.

Frostið Menn! til farsældar fáum þennann tíma, sem dampa brenna drepsóttar í dolunum enn þeir híma.

Jorð er hjúpi hvítum seld — hiljir djúpir frjósa, undir krjúpa fanna feld folfar púbur kjósa.

Ísinn breiðist ifir lá undir heiði bláu, geimir neið og frosti frá fiska seiðin smáu.

Fleira gétum fundið senn fegurð metur oldin, hvár er betra' að una enn úti' á vetur kvoldin.

Norður loga ljósin há lopt um boga-dreigin, himinns vogum iða á af vindflogum fleigin.

Gégnum háu himins þá hofin sjáum blika stjornur smá, þær ljósin ljá, um loptið gljá og kvika.

Sem gullreimuð blæja blá breidd sé eimi viður, ljósin streima ofan á okkar heima niður.

Margt í huga hvarflar mér um himinn bugasetur; enn orð ei buga að dáðst að þér dirðaudugur vetur!

## 12. 31 December.

Kveð eg þig hin sæla sól! svasúðliga og hlía, þig hinnig við fjollin fól flóki digur skía.

Þú munt framar ekki í ár, af því sama dvínar, hrinda ama enn hírga brár hug til gamans mínar.

Þú með blídu bjóst oss hjá, bægdir stridum hogum, þú varst pridin ekru á árla og síd á dogum.

Þú lést gróa græna jord, glæddir frjóann hita, sæl því bjó í hogum hjord, hérum nóg má rita.

Far þá háa heillin vel hlí og siálig laungum, þótt um frálægt hnattar hvel hvata fáir gaungum.

Ef eg væri vængjum á vinda hræranlegum, eg þig færi ad elta þá á þeim skjæru vegum.

Og í skóla þínum þá þreitti ról umhverfis, beitti hjólum brúna á búa sólar kérfis.

Horfa á mindir lífs og lond, loptin, vinda, sióa, mín óhindrud mundi ond og mejin indis gróa.

Því vil kvaka þannig eg þánka vakinn gladur, mig til baka í duptid dreg, daudans sakamadur.

Sól í bláann sígur æg, svona' eru háu bodin, þessa siá ei fremur fæ, fjoll umgljáir rodinn.

Þegar óhriggur heimi frá hédan Siggi geingur, fjollin skiggja ekki á alvalds bigging leingur.

### 13. Vonin.

O þú himneska ástgjof von! sem eilífd og tíma gégnum þreingist, huggadu jardar sérhvorn son, sem þínum heitum eptir leingist.

Vertu hetja óvinnanlig, vafa dreptu og efa kirktu, enn þá, sem tolla trútt vid þig, í tíma, dauda og eilífd stirktu.

### 14.

Hvadan úr áttum fæ eg frid? fisnir þrátta muna, þad er bágt ad berjast vid b..... náttúruna.

Kénnir sérhvor kaunin sín, kvarta géra linir, skal eg bera meinin mín mikid ver enn hinir?

Þú! sem meinin sérhvors sér sem í leini stinnur, þegar eg reini þjáníng, ver þú minn eini vinur!

### 15.

Gull ef finn eg getu á sem gjæfan firir mig lagdi, ef ég geing þar gálaus hjá, getid þid hælt því bragdi?

Vildi stúlka vid mig gód vefja í arma bera, ef eg kisti ekki skjód, asni mætti eg vera.

Nei! eg hirdi fé ef finn og fadma stúlku káta; enn allt hvad bannar eigandinn á eg kirt ad láta.

### 16. Haustid.

Hofudin landa hausti á, því heita vedrid dvínar, hrissa um jardar herdar þá hærur gráar sínar.

Jurta módir litarlaus í líkblæunum sefur, mjólk og blód í brjóstum fraus, sem bornin vokvad hefur.

Rósin mjúka verdur veik í vetrar skrídur totra, af lundi fjúka blodin bleik, berir kvístir notra.

Mædur þannig madurinn mænir á eptir dogum sínum, hann er hugbrotinn og harma beigdur slogum.

Veraldar gjæda vonin þver, þó valda kunni hann audi, til stórræda heina ber bendir manni daudi.

Lát ó fadir lífsins! þá líknar smirsli drjúpa von-húngrada ondu á í eimda kafinu djúpa.

Lát um sídir lífsins á leifar vorid skína, so moldar skrídi mirkrum frá, og minstu á skopun þína.

### 17.

Leingi mádur loks frá ond lífs nær þrádur brestur, sli eg þjádur þér á hond þá alsrádur bestur!

Þegar heimar hverfa brá, hvar skal feiminn andi í sundla-geima hofum há' hræddur sveima ad landi?

Hvad mun sæla sú ei þá svala anda folum lífs indælu ljós ad sjá loga í fodur-solum?

Hvad sár-þirst til þakklætis þá mun trista ondin vid hvíta-krist, sem hjálpræt s hafnadi firstur londin?

## 18.

Lauf í vindl lífs er bid og lítid indis-sæti; hvad er ad binda hugann vid heimslns skindilæti.

Ferdamann í brjósti ber bol þótt anni velgiun, uns ad hann í hafnir fer heim ad ranni eiginn.

Leingur hrædist hann ei þá heiptar ædi rasta, þar má nædid frída fá og ferda mædi kasta.

## 19.

Prestar hinum heimi frá hulda dóma seigja; enn skal þeim aungvum bregda' í brá blessudum, nær þeir deija.

Mundum vér ei þora þá í þeirra húspostillum audmjúklega ad eptir sjá ímsum penna villum.

## 20. Liljan.

Liljan mín med laufin smá litarfögur enn eigi há! vært þér vindar rugga, enn þér mun vera' í þeli kalt, því þarna stódstu sumarid allt sólarlaus í skugga.

Lindin er so lángt þér frá, létt mun ekki vokva ad ná á kletta hillu kaldri, enn því viltu vaxa hér hvar vatns og hita skortur er, því sólin sér þig aldrei.

Þú kémst ekki úr þessum stad, þér var sóna úthlutad, þinn er þessi blettur, enn máské áttu maka þér sem mundi óska ad væri hér á hægri hillu settur.

## 21. Fjallid fagra.

Hér er indi á háu fjalli ad horfa um unn og jardar mó, og lepja í vinda léttu falli loptid þunna' úr vedra sjó.

Vinda andi í veggum sefur, vogar þeigja' og hlída á, haf um landid hendur vefur hvítt og spegil-slétt ad sjá.

Straumar bindast brjóstum landa, beggja hlína vingan má, eiar sinda, sofa, standa silfur dínum ránar á.

Ekki úr sporum blómstur bærast, brjóst þeim géfa foldin kann, vindar þora ei hót ad hrærast, því heilög sefur náttúran.

Fossar skauta fjalla stollum, slitja í boga votnin þunn, lækir tauta í lágum kollum og lædast voga fram í munn.

Sólin klár á hveli heida hvarma gljár vid baugunum, á sér hár hún er ad greida upp úr báru laugunum.

Gulli settar hálfar hlídar hlægja móti sólar brá, undir klettum skuggar skrída skrimslis fótum valla á.

Voga ad standa hrikar háir, hrædast kunna firir því, þá ljómandi sólin sjái, svala unn nær lídur í.

Ad því gaman er ad hyggja undir stórum hædum, þá skugga hamir hræddir liggja og hokta fjorum loppum á.

En nær sólin sest í æginn sem þeim banna hrokann réd, einrád sólin sljúga' á daginn og flæma hann í sjóinn med.

Sól og dagur sjónum hverfa sjávar þannig nidur í hil, nótt vill haga himins erfa, hér er annad sjónarspil.

## 22.

Trú þú ekki um úngann prest ad hann verdi rækur, lesid hefur hann máské mest madurinn gamlar bækur.

Mestann halda eg vanda vil ad veida dokkva kjólinn, ollum verdur eitthvad til þá upp í koma stólinn.

## 23. Onitt ervidi.

Sisifus var hjá Grikkja godum í geingi, enn móti þeirra bodum málugur sér til meina braut, því var dóna frá himni hrundid, og handverk þad eina verdugt fundid, sem ormæddi hann enn aldrei þraut.

Hann átti ad velta hlíd upp bratta hnottóttum kletti, stórum skratta, og þarmed filgdi þetta slis: ætíd vid fjallsins effsta tindinn ofan valt steinninn, so mannkindin ervidadi til ónitis.

Hvor sínum steini hefur ad velta, hindranir þúsundfaldar elta opt hvad sálin fær afrekad, hún má sig ei vid líkham losa, leirkoggli þessum er ad hnosa, og kémst því aldrei stórt úr stad.

### 24. Móðirin við grøfina.

Kjæra barn mitt! korri ró kúrdu vært og sof nú leingi, vekja þig af vænni ró verkjatok né meinsemd eingin.

Húsið þitt er hlítt og birgt, harðvidra so verjist straumi, hræðstu ei þó hér sé mirkt, himnesk ljós þú sér í draumi.

Hræðstu ei við hret né storm, hann þér eingar gétur kvalir, og ei þá heirir hoggva orm húngraðann á kistu fjalir.

Þegar í beinum ilur er og ekki þínu dusti minnur, þegar þig hiti hondum fer, so hræríng, líf og krafta finnur.

Þegar þú eld frá austri sér inn um þreingjast jarðar rætur, og ondin bendir únga þér: æ kom þá mitt barn á fætur.

Þá er drauma þrotin stund, þá er sjónarhríngur fagur, þá skal kasta þúngum blund, þá er runnin mikill dagur.

### 25. Afturgángan.

Maður varð úti eða hvað? ekki kom heim í réttann tíma, so leið dagur og so leið gríma, leitarmenn fjórir logðu á stað, allann daginn þeir eltu fætur, uns augun birgði hetta nætur, fundu' ei grand og fóru heim, um fréttir var ekki gott hjá þeim.

Um þessa nótt var ekki kirt, illa dreimir þá menn er sofa, því apturgánga eða vofa noldraði við þá nokkuð stirt, sumir vakandi sáu dreinginn, sem var hreinlega apturgeinginn, andlit, hettu og úlpu grá augljóslega so þekkja má.

Nú fóru átta út að leita af reima kinni ef findist nár, og moldum hanns feingju menn að veita miskunarverk og kristin tár, þeir fundu kallinn, það fór betur, þá var lifandi draugsa tetur, hann var strokinn úr hollri vist, í Hraundal fékk á meðan gist.

---

## B. Frásögur.

### 1. Móðuræðurin.

Tjorninni situr æðurin á, átta smábørn hún hefur að vakta, votnin þau ekki augum blakta, því logn er ifir lonó og sjá,

úngarnir dansa og leika um lá, látœdis brúka marga takta, enn alvarleg médir agar þá ei sig ad væta fidurnákta.

Vorsólin skín í heidi há, hellir geislum á jordu nidur, gullmálar fossa, fljót og idur, enn steipir á sjóinn silfurbrá, lifandi var allt lopt ad sjá, lifandi heirdust saungva kvidur, himneskri bírd — æ hvorju? má heilögu vori líkja vidur.

Eg kom á skinnaskipi þar med Grænlendíngum fluttist fjórum, í fugla eggja leit því vórum, á ejuna þá hvar ædurin var, uppvægir líkt og íllvirkjar æstum vér fram med hlaupum stórum, gjör ræntum sérhvört hreidur hvar — hér er þad sidur — ísir fórnm.

Nú bar oss fram ad tjádri tjörn, ædurin sem ad sína fjanda sá til íllvirkja búna standa vildi feigin sín verja born;, tjörnin var grunn, og tæpt um vorn, til allra mátti vada landa, vér komum allir veg sinn hvorn veslíngs úngunum til ad granda.

Módurelskan so innilig gleimt hefur vængja flugi frída; firir úngana vill hún strída og firr enn þá láta fánga sig; hún ærdist um vatnid allann veg, ótal steina vér létum rída, first nádi tveimur úngum eg, upp ad landi þeir vildu skrída.

Hérvid ædurin hikar þá, um hina vafdi vangi sína, vill láta steina kost sig pína til dauda heldur enn flía frá, upp til himinns hún augum brá, eins og hjálp þadan vildi brína, hnikti mér vid, nær soddan sá, og sinda lét frá mér únga mína.

Manneskja! hvadan hefur þú helvítska grimd í hjartad, sogid? so heitasti módurelsku logi gétur þér ekki aptrad nú, hrædstu þig sjálf og hédan snú frá heilögum ædar fridar vogi, mig hafdi allar hugsun sú hjartans í gégnum taugar smogid.

Þér fuglar, ormar og þú mann! eins skapara vid erum mindir, hann einn er drottinn, vid kvikindi sem einhuga mænum uppá þann, vermir í sinni hendi hann hnettína og vökvar þurra strindi, eins hvorju strái hjúkrun fann sem hrakid þjádist firir vindi.

Blódug grædgin so leingi lét Grænlendíngana grjóti fleigja, góda ædurin vard ad deija, því aldrei vildi hún flía fet, úngana þjádi þvita hret; því vil eg leingur frá því feigja? ónei! eg þagdi þá og grét, og þadan físti leidir sveigja.

### 2. Uthísíng.

Dálítil stúlka vid dírakkjold stár, sem dírasta gull er hid sólbjarta hár, enn vánginn er visinn og hvítur, auminginn grætur og beigir á brár, blædir í snióinn því fótur er sár, hún hnipin ad hurdinni lítur.

Kroppurinn titrar því kuldinn sár, á kinnunum frjósa þau drjúpandi tár í hrídinni hún er so nakin; í skabla sig dregur ad dirunum snjár, drífur um vánga og glóbjarta hár, sem þidnar og þar verdur klaki.

Hún bángar á hurdu, enn bóndinn, sem er í bødstofu sinni, til diranna fer: hvør er so sídla á sveimi? ljúktu' upp gódmenni! og líknadu mér, lémagna, sárhúngrud, kalin og ber kém eg af gaddfrednum geimi.

Snautadu burtu þitt bannsetta greí! betlandi flakkara hísi eg ei, hann tér og hurdinni þrístir; enn nordri hann smá-raular: þeigi þú! þeil þángad til sofnar hin ángrada mei, sem daudinn hjá dirunum nístir.

Og øndin hún flígur sem dúfa so djørf damphvolfid gégnum og skíum á hvørf, enn henni er himni upplokad. Bóndinn ad morgni, þá birja vill størf, barnskroppinn finnur, sá nú hefur þørf ad ísir hann moldu sé mokad.

Enn hrafninn hann vappar um vindskífur há valhverfum augum og seigir krá krá og gogginn á bustinni brínir. Bóndinn í haga til hjardar sér brá, í hretinu fær hann ei bænum ad ná, því fénu og fjorinu' hann tínir.

### 3. Mejar druknan.

Módirin skipar ad mærin so smá, enn mirkt er um haustnátta tídir, far þú til strandar ad sækja mér sjá, og sídláta mejan hún hlídir.

Hún kémur til strandar og hlustar so hljótt á hræríngar fallandi strauma, hún sér ekki gjorla, því nidsvort er nótt hvar nikurinn fram-réttir tauma.

Enn þegar hún seilist, med halanum hann hremmir þá

smá meju frída, hún fálmar og kafar, því frétt er med sann ad fáir þeim hesti vel ríða.

Hún skjálfandi huigur í hafdísar skaut, þá hljódnar náttúran og þeigir, meina sú dregur í djúpin so blaut, hún basast á þvílíkum veigi.

Þegar hún fadmar hinn þángklædda grunn hvar þrasir hinn hálfblái gígur, hafdísin klemmir þann hrákalda munn á hjartad og lífid útsígur.

Módirin heima hún fær þessa fregn, sér sleigir á hagindid nidur, enn harmur hann þrá-stíngur hana ígégn, so haldist fær ondin ei vidur.

## 4. Frá Jóhannes postula.

Jóhannes helgi í hlekkjunum lá í hvelfíngu fúlri þar dagsljós ei sá, því hann hélt á sannleikanns sverum; gamallri járnhurdu gnaudad er á, gánga því ridnelgdu lokurnar frá, hún ískrar á hrinjandi hjerum.

Heródess þjónar þann hlekkina ber hádgjarnir spottandi færa med sér ad tírannanns tróni; hann situr á gullegum svæslum, enn svipurinn er svartur og ljótur, því heiptin hún skér, og blódhuginn er nú so bitur.

Vid postulann hlæandi kóngurinn kvad krossfesti meistarinn sagt hefur þad: ad óhræddur eitur þú meigir drekka þér skadlaust og drepandi hvad; dálitinn bikar þér rétti eg ad, tæm hann og sjáum hvad seigir.

Vona eg hollur og velkominn þér verdi sá drikkur ef meistarinn er sannordur so sem þú kénnir; í þessu þénarinn bikar framber, af bolvadri ólifjan fult er þad kér, sem lífid og blódskraftinn brennir.

Rólegur Jóhannes vid taka vann, varpar til himinns first augunum hann og krossmarkar kaleikinn ifir, hrínglagin ormur strax upp úr þeim rann, eitrid sem hreistur á skinninu brann, á gólfid hann likkjast og lifir.

Postulinn tæmir hid tilbodna kér, tára vott augá til himinns upp sér,* í þeigjandi þakklæti slitur; enn vantrúin

titrar, sem væntanlegt er, veinandi slá þeir á brjóstin á sér, sem illska og örvínglan slítur.

### 5. Stormurinn og stráið.

Dagsmorgni einum á, nær álfrodull skreitti frón, í beð eg birgður lá, birtist mér þaðan sjón, öndvert í gegnum gler gat eg að líta meir, einvíg í augsýn mér ójafnir háðu tveir.

Stormur með sterkann mátt stríðs-kémpan önnur var, hann fékk við hei-strá átt hamrammar sviftíngar, hann sló og hrakti það hristist og beigði sig, enn færðist ekki úr stað, undraði þetta mig.

Og það fékk afstaðið óvægis kára stríð, hann þreittist þarna við, þaðan dró heim um síð, enn vesælíngs stráið stóð stutt hér á eptir þó, því sláttumanns eggin óð óvörum burt það sló.

Hei-strá eg einnig er alt eins á margann hátt, andviðri amar mér á æfinnar veigi þrátt, álíkt eg enda finn, óvörum dauðinn slær og æfi þráð afskér minn, alvaldur! þú veitst nær.

### 6. Flugan.

Það var í haust eg flugu fann á flötu gólfi skríða sjúka, feldist um kviðinn fiðrið mjúka, flugið ei leingur mátti brúka, upptók eg veika aumíngjann.

Skíla á augum skopuð lá, sképnuna' eg lagði hægt í glugga, og vildi feiginn hressa og hugga, enn hitann þraut í sólar skugga; hún dó og varð að duprum ná.

Eg lagði hennar lík á fjöl, grafskrift þar ifir géra vildi, sem geima tilveru hennar skildi, menn halda hún verði' í veiku gildi, því hér var lítið um erfi-öl.

Grafskrift: (með leifi lesarans) mig ángrar það þú anda mistir ódsleiga sképna mín hálfsistir, því einn og sami er faðirinn firsti flugunnar, minn og keisarans.

Þú! sem í loptsins létta straum lífið gatst inn í teigum sogið, seinsog vængjaður eingill flogið, inn um náttúru filsnin smogið, því var hérvistin þér so naum?

Eg les ei meir ifir legstad þinu, ad líkinu skal eg koldu búa, því firir storma þjóti hlúa, og þúdi eg, vildi eg feiginn trúa ad þú risir upp í annad sinn; amen. Petta var grafskriftin.

Einn maídag úr dái stód flugan mín upp og fjodrum snéri, fótadi sig á hálu gleri þar sem ad heidur hiti gréri, hún sleikti morgun-sólar blód.

Hvad hún var glød og límalétt, gjørdi sér nú upp gamankvædi, gleimt hafdi dauda og vetri bædi, af því vid vorsins varma gjædi nú gat hún sig af nægdum mett.

Þegar eg hugsa um þetta fer: þarna lá flugan daud í vetur, enn aptur stadid upp nú getur; og munu henni greidast betur heima um skiptin heldur enn mér?

Vantrúin mætti hilsa hér skammast sín og þad skilja og sanna: skaparinn kann í dufti manna eins kveikja líf, og ljóss til ranna leida þá mold sem dáin er.

## 7. Géstrisni.

Veitstu vinur! hvar verdug lofdírdar géstrisnin á guda stóli situr? hólmanum hædsta á, hinnig nordur í sjá þar, hvar vinda þrokir drekinn bitur.

Hún tók heim sitt þar, helst því þørf á bar ad hjúkra þeim, sem hræfvelgs flía ergi; þó sáldi svølum snjá, silfurtróninn á, situr hún heit og hreß á segul-bergi.

Þegar hún settist þar, enn þad árbægra var, vid sólina hún samdi þann skilmála: eigi ad síga í sjá sumarnóttum á, enn leidfarendum ljósi og hita strjála.

Hverja ber hún hild, hundrad arma vid, út um hafid alla þá hún réttir, mørg er hofnin hlí hennar fodmum í, því hofud og augu hefur hún mørg þareptir.

**Ísland** eian hét, enn hún seinna lét géstland kalla **Gardarshólmann** fríða, gjør vil eg greina þér, gisting hvørnig er, ef ifir hennar ríki viltu ríða.

Hvar þú kémur á hlad, húsbóndinn spir ad: ertu þirstur? eda viltu borda? vertu velkominn! vísar hann þér nú inn, og búsins fram þann besta setur forda.

Kurteis kémur þar kona og stúlkurnar, þær kvedja þig med kossi allar saman, mörg ein mærin smá munnfríd rodnar þá. Þetta hefur mér þókt á stundum gaman.

Hérnæst húsbóndinn hestinn lætur þinn hirda og leida í haga eda ad stalli; konan kalt ef er, kallar á þig med sér í hlíindin, þar hjónin búa á palli.

Einhvör íngismær, er þá skipun fær, deiga sokka dregur af þér ámedan, þidhendt þessi snót þerrar kaldann fót forklædis á faldi sínum nedan.

Medan vakir ver, á virl frambodid er ad drekka eda dáltid meira ad borda, kvartar konan mest kjærum firir gést, ad honum gédjist ekki ad þessum forda.

Dóttir bóndans blíd bidur þig um síd þreittann koma þar hún hvílu reidir, ofur innilig afklædir hún þig, á þig sídan isirdínur breidir.

Kjærum kossi med kvedur hún þig á bed, enn vei þér! ef um vinsemd meiri bidur; hennar brjóst er hreint, hérmed ekki meint meira er enn mannúdleiki og sidur.

## 8. Hallfrídur.

Í hátída dansinn hún Hallfrídur gékk, besta blómakransinn sú borid fékk, því tída vill hún til, enn vís er þeim vansinn, sem venur sig á hrekk, og hefur spott firir spil.

Kalli mætti mejin midri götu á, sér ad vísa veiginn, vísíd bidur sá, því augun eru sljó; í háa hamrateiginn haltu nordur þá, mælti hrekkvís og hló.

Enn máni hann sig vefur í mirkur og ský, kafald landid kéfur kinja díngjum í, stormur hvessir hljód, skablana hann skéfur, þeir skíla veg og bí; rádvilt stúlkan stód.

Hátída veiginn hún hitta ei má, enn villist fram í teiginn, sem vísadi kalli á, mædd á midri nótt; kaldur verdur feiginn kallfuglinn sá, sem hírir á skabli hljótt.

Mærin máttdreigin þar maka sér fann, nú vissi veiginn og viltist ei hann, hjálpudu eingin hljód; hún vard sneipt, úthleigin heima í sínum rann, því kalli kéndi jód.

### 9. Frá Grænlandi.

Komir þú á Grænlands grund, ef gjörir ferð so lánga, þér vil eg kénna að þekkja sprund, sem þar á buxum gánga.

Allar hafa þær hárið nett, af hvirfli í topp umsnúið, vafið fast, so fari slétt, fallega um er búið.

Konur silki bera bönd blá um toppinn fríða, láttu þær sirir líf og önd, laxi! kirrar bíða.

Ef krakka hafa vísin væn veidt að lausum hætti, hafa bönd um hárið græn; horfa á þessar mætti.

Þær, sem eptir lidinn leik leingi ekkjur búa, böndin hafa um hárið bleik, heiminum frá sér snúa.

Háraud bönd um hár á sér hreinar vefja píkur, enn þessi litur, því er ver, þreifanlega svíkur.

### 10. Ása í Aradölum.

Það var austur í Aradal, hún Ása sat við lækja niðinn, vötnin áttu vina tal, og veltu sér um móðurkviðinn.

Svart um himinn svifu ski, sálda niður hvirfilvindum, heirir þeirra þúnga gní, þegar falla' að hvössum tindum.

Nóttin kémur í djúpann dal, og daginn frá sér burtu tekur, hún þar gistíng hafa skal, hús og jörð án leifis tekur.

Þarna situr hún Ása ein ifir sínum lamba kindum, þar sem vötnin hvína hrein, hulin nótt og skakin vindum.

Síngur hún ifir sauðum þá sorgarljóð, með þessum tölum: „Nóttin leinir landi grá, ljósin hverfa í Aradölum.

Léttið jarmi, lömbin smá! lúrið nú á grænum bölum, eg skal vaka iður hjá, einmana, í vindi svölum.

Skulu ei iður skaðað fá skollarnir með laungu hölum, reka vil eg refinn frá ragann niður að sjóarmölum.

Ein eg líða alla má ánauð, lamin hugarkvölum, vinurinn minn er víkinn frá, vaki eg því með kinnum fölum.

Æ! mun Trausti álfum hjá inn' í fjalla læstur sölum? ó! þá vildi' eg optar sjá aldrei sól á tinda völum!"

Ása þannig sáraun saung, sat og mændi í hilinn bláa, enn þá var eins og þoka þraung þrísti á sjónarglugga smáa.

Doknar hilurinn, dimmir á, delja vindar, enn straumar þagna, tilfinníngin tínist þá, tóna hljóð úr eirum dragna.

Máttinn dregur úr legg og lið, lífið ei sína hræríng metur, andinn þenur og þrikkir kvið, þó so lágt og hægt hann gétur.

Hvornig er þér Asa smá! að öllum háttum sona vikið? líknið þið henni hvor sem má! því hjartað titrar og reinist mikið.

Utiseta er ekki holl, einmana þeim nóttin blindar, fjöllin vekja hugaryroll, og hræfarskía rakir vindar.

Asa vogar veika önd valla gégnum brjóstlið draga, enn nú er tekið henni í hönd hægt og mjúgt sem vinir plaga.

Horfir hún sér til hliðar nú, hvör vill taka meiju blíða? æ minn Trausti! það ert þú, þún var eg orðin hreld að bíða.

Og þú varst so leingi á leið, liðnar tel eg fjórar vikur; hjartað mitt þeim harmi kveið þig hefði fángaðvatna nikur.

Svarar Trausti: Sætan mín! férðu nú, eg til þín vitja, enn nú fellur ferð so brín, fært er ekki hér að sitja.

Vefur hann hana innan í arma sína, og þaðan ríður, þá er eins og þjóti skí, þegar hún gégnum dalinn líður.

Koma þau á einn kirkjustað, þar klerkur síngur fagrar tíðir, fjöldi manna messu að mundi vera, og lestri hlíðir.

Trausti Asu hvíslar hljótt: hér skal okkur vígja bæði, síðan fáum saman rótt sæl að lifa í fullu næði.

Kjætist mei við mannsinns tal (enn mun nú allt sem skildi? píka!), Trausti hverfur úr sálmasal; söfnuðurinn og prestur líka.

Parna verður Asa ein eptir nú, með tómar hendur, kértaljós á kistu stein, sem krossmarkinu nærri stendur.

Í líkkjölunum liggur nár, lagt er þeim ifir andlit klæði, loga hjálmaljósin klár, líkt og sólin branda glæði.

Það er Asu ósskum næst, út á komast sléttar grundir; heirir hún þá að hurð er læst, so húsið skélfur og nötrar undir.

Ottast mærin atvik það, innar líkt og kólfur sendur, krossmarkinu kraup hún að, kistunni sem ifir stendur.

Hér er allt so auðt og hljótt í eidilegum ljósaskímum, margt í skugga mindast ljótt, sem mirkrin hilja undir grímum.

Ása titrar laufi lík sem létt af vinda köstum bærist, enn nárinn undir fornri slík í fjolunum sínum líka hrærist.

Af andlitinu fatið fer, fœlan kémur af rokum sonnum, æ! æ! hvað hún Ása sér, andadann Trausta glotta tonnum!

Kaldur réttist kroppur þar kértin slokna á hjálmum sínum, Ása verður að aungu — hvar er hún nú? í dalnum sínum.

Situr hún þar við somu á, svalar eirum kvikur straumur, hvornig stendur á þessu þá? það var ekki nema draumur.

Dagurinn hátt á himni stóð, hægur bærðist andi vinda, morgunsólar blessað blóð blæddi niður um fjalla tinda.

Lombin stigu á léttann fót, ljóminn þegar dalinn skein um, nætur skugga skrímslin ljót skommuðust sín undir steinum.

Hissa situr Ása aum, og um kinnar tárum sáir, hún er að þíða þennann draum, þánkinn aungu góðu spáir.

Hundar gelta heirdust þá, hlustar eptir sprakki svinnur, Trausti ríður ofan með á aðkomandi og brúði finnur.

Þar er prestur honum hjá, sem hjónabanda-taugar spinnur; brúðurin hlær, og brosir smá, bóndinn kanské ekki minnur.

Hinn, sem svarta hempu á, helgar ifir þeim bænir vinnur, og þar vil eg enda skrá, því einginn maður dalinn finnur.

## 11. Valurinn.

Þar, sem fallinn valur var vopna eptir þrumu harða, bændur vóru beðnir þar að bæla lík í iðrum jarðar.

Miklar gjörðu grafir þeir, og grátt við léku jarðar kviðinn, bældu so í blautum leir í blínka stóra hræin liðin.

Einn, sem þar með lífi lá lærbrotinn og handar særður, lét sér ekki lítast á í leirgrofina að verða færður.

Herðir því á hljóðin smá: „heilla bóndi! þú ert ærður! að eg lífi allir sjá, um það skaltu verða kjærður."

Bóndinn að hanns orðum hló: „afturgeinginn máttu þeigja, eg læt mig ei æra, þó allir vildu þaunig seigja.

Einginn sá, sem eittsinn dó, orustur skal hér fleiri heija, oss er bændum bagi nóg að bigðarusla slíkra greia."

Grofina í haun dreingiun dró, á dísin nádi moldu sleija, enn lidnir fá þar lítla ró, því lesturinn var ad bolva og sveija.

### 12. Hvalveidin.

Fórum vér ad fánga hval, firir stafni lá hann, Daníel, sem skjóta skal, skutulinn keirdi á hann.

Fleinninn sökk á svarta kaf, saung vid hnífil færi, siskadrekinn hélt á haf hart sem vindar bæri.

Hlelpur skip um hosin blá, so heili um eirun sídur, slækja kémur færid á, fellur sjór um slídur.

Öxi tók hann Andrés þá, egg ad kadli ridur, Daníel í sárid sá, og síndist ekki fridur.

Hvalurinn, sem leid hanns lá, landi undan skridur; hlut minn skal úr honum fá hvor sem frekast bídur.

Enn Daníel minn er dauft ad sjá, digra hamargrídur hendir hann út í hola lá, vid hana skapid svídur.

So hoggdofa hefur Þór háfinn setid vidur, þegar ógna ormi sjór aptur rendi nidur.

Hann hefur sínum hamri á kaf hendt á eptir fjanda, enn vadnum kreistir endann af ásameiginn handa.

Þó eru hanns so beittar brár, brúnum þegar hleipir, ad Imir, solur eins og nár, utan bords sér steipir.

Sín lét heira eingin ord Andrés Blondukútur, enn ekki fór hann firir bord solur og nidurlútur.

---

## C. Sitt af hvörju.

### 1. Fjöllin á fróni*).

Hvad fogur er mín fedrajörd fjallkonan gamla, kénd vid Ísa, hvar tindar hátt úr hafi rísa, hvítfoldud teigja jokla bord, standa und' hettum kristals kláru sem kémpur er gilta hjálma

*) Þar kvædi þetta er nokkud afbakad aptan vid Svoldar rímur, líklega eptir ófullkomnu handriti prentad, og þad þikir betur eiga hér heima, læt eg þad hér inn med lagfæringu.

báru, gnapa fram ifir gljúpann sjá, þau geislum hellir sólin á.

Þá Ásaþór sá Íslands fjöll, á Snæfellsjökli tók hann sæti, þau sjltu hetjuhug með kjæti og sér til himinns otudu öll, sér fram af tindum votnin veltu, vina rodd Þór í eirun heltu :,: þá géngu kémpur hanns á hond, því hetjuöld stód um nordurlond. :,:

Þá visti' eg heija hildarþrá hamremmis trilta Íslendínga, bláklæddir stódu í brinjum-hrínga, Gunnar og sterki Grettir þá. Menn festu konu', enn firir hana felngu tídum á hólmi bana, :,: deijandi munnur orkti ód, þá oddur spjóts í hjarta stód. :,:

Fornaldarsogu og frædiljód, fram þuldu menn í háttum vondum; þar stódu skáld, med horpu í hondum, hvar fjandmanns dundi dauda blód, þá vóru kvædi í kóngahollum kjærust metin af leikum ollum, :,: vér geimdum þeirra vísnasofn um vorra fedra hreisti og nofn. :,:

Enn grær á vorri ættarjord atorka soun, hjá traustum holum, enn er gladvært í grænum dolum, hvar gjæfusæl sér leikur hjord, enn sjáum lax og silúngs fansa í silfurelfum ljósum dansa, :,: fogur er saungliſt fugla nóg um fjordu, ejar, dali og skóg. :,:

Í sveitabóndans auga enn eg ægishjálm hinn sama þekki, sir sem um hætta hildar stekki ógndjárfir hvestu afreksmenn, kjæta mig augun bláu og blídu bændadætranna heima frídu, :,: eins og þá Bragi Idun sá, þær ástir kveikja skáldi hjá. :,:

Heill sé þér, kjæra fedrafrón! fjoll þín í gégnum eilífd standi, þó votn og eldar verold grandi, þau gledji þinna sona sjón, Ginnúnga upp úr gapi' óholla gráhærda réttu fjallakolla, :,: so vér frá Gimli gétum sjá hvar gamla Ísland fordum lá. :,:

## 2. Sjóferdin.

Heil kom þú, hin hvíta alda! hlæir mig ad þig sæ séd, mér í þína kjoltu kalda kasta eg opnum fadmi med, :,: taktu

vid mér vinaleg ifir kvakid, bólgid bakid, beri oss þitt á réttum veg. :,:

Sér eg dir á dimmum múrum dags er alla birtu fól, heldur bregdur skin af skúrum, skoda eg nú þá réttu sól. :,: Undverd blasir móti mér sú hin háa, hvíta og bláa, hlídarbrún firir stafni er. :,:

Bilur sjár und' blødum ára, brakar í trjám enn marrar raung, melankólísk buldrar bára bátnum undir vøggu-saung. :,: Oldur saungla um sand og skér, géfa ad skilja, vitna vilja, vorunum nær eg kominn er. :,:

Hrinur sjór úr hriggjum boda, hrínglar þúng vid strandir møl, hvít er breidd um fjøru froda, ferjan nemur stad á kjøl; :,: land er tekid varir vid, síngur ægi sínu lagi, samrómadir erum vid. :,:

### 3. A hestobaki.

Hestar fælast hrinur sjás, hrínga makka og taka á rás, nú skulum rída hátt til hlída, handan undir þennann ás.

Fíkur reikur um gøtu grjót, glimja tauma stángar mót, tindrar í eldum køldum á kveldum, klársins stórum undir fót.

Hálsar, dalir og hólarner, hlaupast á og leika sér, á reidarþíngum allt í kríngum idar hvad, sem firir mig ber.

Bilur holum bakka á, blakkur óklokkur frísar þá, hlustar eptir, eirun brettir, og ifir kafar strauminn blá.

Hesti' er best ad skélla á skeid, skjót er ad snotrum bænum leid, mál er í slaka tauma ad taka og trolldóms fulla stansa reid.

### 4. Til barna.

O, þér blídu englar smá! í óspjølludum blóma, leiki frída látid sjá líkt og jólum sóma.

Jeg kém líka ad leika mér, lítinn skal mig géra, ad øllu slíkur eins og þér, óska eg helst ad vera.

Læra feiginn leiki smá og lætin vil eg fegur, enn eg skal seigja idur þá æfintíri og søgur.

Þegar þið erud glöð og góð, gullin eldri manna! kinna berið blómstur rjóð sem blóðin sólejanna.

Hvarma baugum innan í, eins og stjarna'á heiði, litlu augun leika frí, lángt frá sorg og reiði.

Hin, sem skjæla sig af sorg, svört í framan verða, þeirra fælast allir org og ásjnd blóma skérda.

Leikið kát á léttum fót, laglega fotin berið, eptirlát, með ástarhót ikkar milli verið.

Ofkum mót ef eitthvört sinn eldri bragnar sæma, ei má ljóta ólundin andlits rósir skræma.

Ráðið vísa eitt það er okkar fornu vina: elska og prísa eigum vér alla skopunina.

Barnið háa í Bethlehem, blómgað náð og friði, blessar smáu bornin, sem brúka fagra siði.

### 5. Við Reikjanes.

Enn þá lifir ein í sjá, Odds og Gardars Finna, gnapir ifir bilgjum blá, enn bleik er húðin kinna.

Skarpleit mjøg og skøruglig, skíum hofuð faldar, þokka fogur þrifalig, þrokir á hveli aldar.

Brúnum hreifa hvítu trof, hofuðin veður skara armar þreifast útum høf augun himinstara.

Ennis breið og brúna há, bragði lísir þráu, hjarnar greiðir fjøllum frá fossa hærur gráu.

Þótt að hreiti hráum snjá hret af skíum gráum, situr hún heit og sjálig á segulstóli bláum.

Móðir háa mína að sjá, mig sem bornin girnir, enn eg fer frá þér aptur þá ef þú við mér spirnir.

### 6. Hvarf á Grænlandi.

Far nú vel! mitt Hjartarhorn, Hásteinsbæli og Søbull*), vermi iðar fotin forn fagur morgun røðull.

*) Hjartarhorn (Hjortetakken) og Søbull (Sadelen) hæðstu fjøll á Grænlandi, dalur þeirra á milli ujaraksuak (sá stóri steinn); þar hafa búið Íslendingar í fornøld.

Eg er kominn út á sjá, átján lángar víkur, mér vill idur ódum frá ita stormur kvikur.

Pad er vert eg væti brá ad vidskilnadi okkrum, því eg undi idur hjá odrum betur enn nokkrum.

Pid hafid heirt minn harma saung, hlátur og kjæti glauma, fram um idar fornu gaung, fæddi eg marga drauma.

Undir hafid einatt þér oll mín raulad kvædi, og so ad kalla sampínst mér í sorg og gledi bædi.

Pad er vinskaps orsok ein idar, verd ad lofa, Íslendínga oldrud bein í ikkar skjóli sofa.

Geimid þid fedra gomlu bein, sem grafar feldur ornar, geimid á sínum stad hvorn stein, sem stidja tóptir fornar.

Grænlands fagri fuglinn sokk, firir sjónar mótum, enn haffrúin um djúpin dokk dansar á morgum fótum.

## 7. Í Spánarhafi.

Æ, þú situr austur hér ísum litud, Kona! enn mig flitja fram hjá þér forlog bitur sona.

Fugla sendir þú mér þrjá, það er bendíng módur! samt ad endíng eg þér hjá eittsinn lendi módur.

Fuglinn mælir margt þér frá, mér sem gjælur kvedur, kom þú sæl, mín svalan smá! saung indælum medur.

Hvad þú þilur þægt eg met, þetta skil eg svarid, æ eg vil enn ekki gét, Íslands til samfarid.

Fljúgid heim og heilsid þar hroptum eima ránar, segid þeim hvar Siggi var á sjáar geimi Spánar.

Mostrum hvílid idur á, ádur enn skilnad gérum, því sextiu mílur fullar frá fóstru vorri erum.

Eg síngjandi idur kved, ei má vandi breitast, minn skal andi ikkur med upp ad landi fleitast.

Mér er þrá ad flæmast frá, framum hjá þér, kjæra! og kollinn á þér essta fá ei ad sjá, hin skjæra!

Látum vinda skaka skí, skjót mun heima forin, látum finda austur í Adalheima knorinn.

## 8. Um Grænland.

Landid hátt vid lída próf litur grænn ei skridir, það er grátt af geitar skóf, gamburmosa og vídir.

Fata græna fóstra mín! fanna laugum þveigin, ifirum mæni eg til þín, enn ekki rata veiginu.

Heimska er ad heimta lán, holds ad blindum vilja, mætti eg verá mótgangs án, mundi hann vid mig skilja.

## 9. Brim.

Bilgjur flasa fram um mar, vid fjollin stæla hnúa, einatt þrasa þúnglindar þær vid klettabúa.

Þeirra híngad erindi er aungvum þó ad notum, því þær springa og sálga sér, saunglar í hausa brotum.

Hættid' þid ofur adsókn, því idar reidar voldum, hamra vofur innan í oskra bláum tjoldum.

Ef þær kindur útkomast og oldrud fjollin brotna, þeim helgrindur halda ei fast hafs eda vedra drottna.

## 10. Læknisdómur vid margslags meinum

Madur skal taka á hollri stund, af hreinnar jómfrúr holdi og beinum, hérumbil átta lísipund, og æsku blómstrum sá um sama, samt tveggja augna blídum lit, og hjarta sem bilar ei vid ama, enn heldur fram í daudans slit; vid allt þetta bind þú elsku rætur, á ástar glódum þad heittu nú, morgna og kvold, já, midt um nætur, medolin sídan brúkar þú.

## 11. Staka.

Jeg fór inní Instabæ og upp á lopt hjá konum, þar eg stundum felur fæ firir stórvidronum.

## 12. Caron junior.

Ferjumadur á fjórum ám fleitir báti einum, nóttin hefur þann galdraglám gétid og fædt í meinum.

Einginn sér í andlit segg, ei þarf skada kalla, því kolsvart, blautt og skitid skégg skopun hilur alla.

Augun sá menn ein að sjá eða hnetti rauða, eldi lík og ekki smá, því aldurinn beigir kauða.

Hér mun þekkja hann Carou, hvor einn bókavitur, sem um Styx og Acheron og árnar hinar flitur.

Menn hafa aldrei kaudann kent við konn' eða stúlku nokkra, nú hefur hann þó son einn sendt, sinn í heima okkra.

A foðurnum vér þekkjum þann þræl með bragði lútu, Niu- og Kristiáns-hafna hann hendir á milli skútu.

Óterlegt er afkvæmið á íllum gétið tíma, með sínum hefur nidja nið níðsvert alið gríma.

### 13. Støkur.

Ef eg lagi landi á, lítt með huga glöðum, ætl' eg bragist ekki þá upp að Barkarstøðum!

A Flatei er so fjandans kalt firir norðan hólinn, sunnan til á einni allt eru betri skjólin.

Þegar eg vestur var í Hvestu géstur, allot bestu báði þar, þókti flest til ununar.

Hinn géstfrií herra því nam valda, snotur, tíginn, tignaður, Thorlacius Olafur.

Því mun Grøndal gjöra spott, um gamla skáldið Akra? eins að níða íllt og gott, ekki' er siður spakra.

Arna rímur allmarger eiga og með þær hlaupa, enn hanns Grøndals góða kver girnast fáir kaupa.

Jeg hefi bágt með augað átt, um það þrátt eg klaga, það var blátt og þrútið hátt, þessa átta daga.

Elti eg héra hálfskotinn, helst því skéra meinin, háll varð mér þá heimurinn, eg hraut á berann steininn.

Og mér festi í þánka þá, þessa vísu eina: það er mesti munur á, mei að kissa og steina.

Ástin hefur hírar brár enn hendur sundurleitar, ein er mjúk, enn onnur sár, enn þó báðar heitar.

Þegar eg ráfa og heingi haus, þid haldid þad skálda drauma, enn þá er eg so þánkalaus, sem þorskurinn lepur strauma.

Finn eg glögt þá andinn er ad ida í smidju ljóda, skrokkurinn aungva adstod lér, utan eg vilji hljóda.

## 14. Anna.

Aldrei held eg, Anna mín! ad okkur vígi prestur; enn bædi ertú fögur, fín, og fljóda kostur bestur.

O! ad rinni Íslendskt blód í ædum þínum meija! hjá þér skildi eg, heillin gód! hvílast, lifa, deija.

Nú ad öllu graudt skal gjætt, sem gjördist hér ad framan, kannské eg géti okkar ætt á endanum rakid saman.

Fadir þinn Svenskum fæddist hjá, first um hann vid tölum, þar eru ættir Odni frá, og eins í Norvegs dölum.

Enn frá Norveg Íslands til áar fluttust mínir, kanské einnig um þad bil, ættarfedur þínir.

Þetta kannské harla hrædt hjartad mitt vill géra, ættar vorrar blód út blædt í bardögum kann ad vera.

Módurætt þín mun í graut, og minnst um verd ad skrafa, viltir þussar, verri' enn naut, verid þetta hafa.

Enn þig vil eg hafa hriggt né ert, hródrar síst í messu, eg veit þú 'ei gétur gért, garmurinn minn! ad þessu.

Vid erum bædi væn og stillt, vel má fara sona, þad má líka þikja skildt þjónusta og kona.

## 15. Stökur.

Jeg er eins og veröldin vill velta, kátur, hljódur, þegar vid mig er hún ill, ekki' er eg heldur gódur.

Ef ad vid mig hún er hlí, og hugann eitthvad gledur, er eg léttur eins og ski, sem ítir af sólu vedur.

Vid dálítid vinarhót, sem vesæld mína bætir, hvorki vald á hönd né fót, hef eg þá firir kjæti.

Enn hún ber mér optast ramt, so af því til eg kéuni, ekki hef eg enn þá samt audmikt mig firir henni.

Þannig heunar roddin rám, rimur v'd mig suaudaun: „hueigdu þig og krjúptu á knjám! eg kreisti þig annars daudann.“.

Vefst eg eins og veika strá, sem vindar ifir hvína, rifnar ekki rótum frá, ró þó meigi tína.

Þá heimur um dirnar hrindir mér, hattinum af eg lipti, og til hinna hnatta fer, holl eru mér þau skipti.

# Annar Þáttur.

## A. Pistlar.

### 1. Almennilegur pistill.

(Grænlandi 1833.)

Þér Íslendíngar! idur brædur, Og idur stúlkur, konur, og mædur, Hvar sem þid finnist Fróni á, Í sjósbásum eda lambakrá, Ut' undir veggjum upp á skjá, Inni stofum og loptum há, Í fjallgaungum, eda fram um sjá Til fiskjar, so sem henda má, Og hvorskins storf, sem þid stritid vidur, Virdist þér opin eiru ad ljá, Og audvirda kvæda-rollu ad sjá, Því gégnum himinn og hefin blá, Hvellandi fram sér bragur ridur, Í þessari sinni sálma-skrá, Sigurdur Breidfjord heilsar idur.

Þér skiljid, bædi konum og kollum, Og kvennsniptum first og sídast ollum, So einginn skiljist undan hér, Velnefndur eg, í vessa spjollum, Vil idur hérmed þakkad fá, Firir allt gott, ó! firir, já! Firir meira enn nefna má, Firir sleikjur úr flauta-dollum Fram í búrum og inn' á pollum, Firir þorskhofud, firir smjer, Firir ad skó og sokka af mér Dæstum á kvoldin dróud þér, Þegar eg kom í fonn af fjollum, Firir hvort ord og augna-ráð, Sem óverdugur jeg hef þád, Árla og síd af idar nád, Og einginn xenni gétur tal d; Því er nú meir enn midur og ver, Ad mogulegt valla slíku er, Ad troda innan í

arkar-skjalid, Enda kanské þad væri galid, Ad tína hvort ord og atvik hér, Sem áttum fordum saman vér, Vid hofum þad sona hvort hjá sér, Þad er so margbreitt heima-hjalid; So lángt frá ídur, þad er þúngt, Þejandi ad sitja hérna og skrifa, A minníngunni magur lifa, Og merglausri von, er þrátt vill bifa, Enn þad hjálpar ekki á því ad klifa, Þá er mér best ad setja púnkt.

Þú hrafn! sem eg ad erfdum réttum, Þá eddu-bók vid sundurflettum, Fékk eptir Odinn fodur vorn, Beindu nú flug á fjodrum léttum, Fram ifir Isa-vángi sléttum, Frá Jokli og Skor á ejar ïun, Og allt í kríngum hann nafna minn, Kannadu sérhvörn kima og horn, Þar kunníngsskapur minn vakir forn, Komdu so til mín fullur af fréttum.

Seigdu mér grannt hvar sérhvor er, Sjúkur, heilbrigdur, ríkur, snaudur, Og hvorjir lifa og hvor sé daudur, Og allt þad sem vid á bæum ber, A bæunum, sem þú veitst ad mér So hjartanlega ant um er, Flakkadu' ekki' eins og sjónlaus saudur, Sviftur rænu og tilfinníng, Enn smjúgdu alla króka í kríng, Og mundu þú ert minn mesti audur.

Hvad er ad tarna? hvornig er Hogunum mínum nú vid undid? Er eg þá kominn ifirum sundid Sjálfur, minn jeg? Þad sinist mér! Jeg stend í Hrappsei Alfhól á, Og ejar horfi fram um háar, Ur himinnspeiglinum hvíta sjáar, Hreinar og þveignar, giltar, bláar, Upprèttar standa eigi fáar, Imsar hærri, enn sumar smáar, Og þadan saungur heirist hávar, Haffuglar, ædur, lundar, mávar, Brosandi kveda' á bokkum láar, Buldra vid straumaraddir þráar, Mér er indælt ad sitja og sjá, hvar Sérhvad er eins og fordum þá var, Og vil nú allt í einu sjá, Enn hvornig þessi sjón er feingin Mig veit eg kanské margur spur, Og skal því ekki leina leingi, Med leifi, eg er apturgeinginn, Granda samt vil ei gódu meingi, Sem Glámur, Klaufi, og Þórólfur, Mig þarf ad hrædast madur einginn.

Blasir vid Hagi á Bardaströnd, Beiti eg hvossum augum þángad, Af því mig hefur leingi lángad, Vidkvæmri

ad þrísta vinar-hönd, Að Reikhólum upp eg horfi hlítt, Hornauga inn á Skardsströnd renni; Skadarfells-aldrad mikilmenni, Marglofad, þar sem ann og kénni, Seint mun eg hafa séd of títt; Hjón þar, á medan moldin grær, Minníngu sinni valla tína, Peirra digd hrésun þarf ei mína, Hún er so reind, og skín so skjær; Eg skrifa ekki um þetta íkjur, Af því eg fara ætli' í sníkjur Upp á hann Boga, sem er ríkur, Par á eru nú litlar líkur, Medan eg ekki mjakast nær. Hvammsveit og Dali þoka þekur, Par til mig heldur minni rekur, Einkis sem girnist eg ad sjá, Samt ef ad Hjardarholti frá, Hnúkagusuna snøggvast tekur, Laungun eg hjá mér veit þad vekur, Ingveldi og Stephán fundid fá. Æ, hrafnar mínir! hyggid ad, Hjaltalín skáldid hvørt þid sjáid, Og honum vinar heilsun tjáid, Hann ef lifandi sédann fáid, Enn eg má næstum efa þad, Því líkhaminn er so aldurhár, Eg óttast hann máské liggi nár; Enn andinn hanns gétur aldrei dáid.

Hvor býr á Eiri? hvar er hann Jón Hákonarson? æ, ertu látinn? Pá skal vinur þinn væta grátinn Rúm þitt í jord, vid raunasjón; Vid hittumst þá á hærri veg, Hvad sem vantrúar-bornin feigja, Vid skulum ekki útaf deija, Því veran okkar er ódaudleg; Mun skáldid eda mammons þjón, Mest hent ad lifa í flokki anda, Og laus vid þrælsnorur líkhams-banda, Lífsins híbílum næstur standa? Dæmdu' um þad, lífs eda dáinn, Jón! Enn, Eiri! þú ert enn þá veidi-kló, Æ, ætl' þú værir heppin þessu sinni, Kristján ad fá í kjoltu ad dilla þinni, Kóngs valdsmann úngur Magnús burinn svinni, Hefur sér valid verdugt fridt heimkinni, Hvar látinn fordum løgmann Oddur bjó. Magnúsen finna fer eg þá í svip, Frændsemi vegna, nei! nei! ekki þaumin, Enn hinns, ad eg þikist heldur þekkja manninn Að hjarta, gladsinni, lítilæti og svip. Æ, kjærar þakkir, Kristján minn! firir þad, Pú kvaddir mig ætíd ljúfu vinar bragdi, Eins medan fæd vid frændur þína lagdi Mig fáugum undir mammons laga strit, Pú hlóst ad því, og hafdir meira vit, Enn hall-

mæla mér, þó ofugt keirdi á stad. Fordum þá eg var fótgángandi, Framan vid Klofnings hornid blátt, A eptir dróst eg, eiddur mátt, Því, vinur minn! þú varst velrídandi, „Vilt' ekki, skáld!" þú mæltir hátt, „Koma til mín, á klárinn brátt, eg held hann undir okkur standi, Alinn á tødu, í gódu landi, Hafi hann ekki merar mátt, Þá má þad vera furda og fjandi." Og þú ert giftur afbragds vel, Indæla, fríða, gáfnaríka Konu þér fékkst, eg kalla slíka Kostinn þann besta, og óska líka: Þú lifir med henni lángann aldur I lukkunnar skauti innifaldur, Og finni eg ikkur, firr enn hel Líkamans á mér lokar vørum, Ljód skal eg irkja, snar í svørum, Og hámíngju árna ikdar kjørum, Eg unni bádum af huga snørum I heilla ad bada rósum rørum, Og brúdkaups ikkur þá sálma sel, Æ! sífeldt lifid þid bædi vel! Hédan nú ifir fjørdinn førum.

A Helgafelli, hérna' er Jón! Hitti' eg þig aptur, gamla skinnid! Eg veit til mín þitt sama' er sinnid! Þá Sigga þíns heirir ljóda tón, Þig lángar til ad irkjast á, Er 'ekki so? og verda meiri, Enn jeg læt eins og þad ekki heiri, Eda mig glepji størfin fleiri, Sem Pólitíkus, og þeigi þá. Lifdu nú heill á Helgafelli, Hæga, blída og lánga elli, Hvíldu þig lífs og lidinn þar, Enn ljód irktu fram í raudann daudann! So mángi finni mída audann Eptir þig, þegar andarsnaudann Utbera líkid náungar; Sem skáldi sómir, lipurlindur Láttu smákvædi í brjósti fædd, I frómleika³ og gledi slíkur klædd, Frá þér koma til skémtunar, Og skrifadu þau, þó þú sért blindur. Nú kved eg þig, því erindi á Ofan í Hólm. Mig hérna eg þekki, Enn húsid ad tarna mikla ekki, Hvør hefur biggt þann háa raun? Hann Thorlacíus, gódi maun! Eg fer þar inn ad hitta hann, Heilir allir ad bordi og bekki! Jeg skammast mín og skammast hef, Og skal géra þad hér eptir leingi, Ad þú hefur Arni! frá mér feingid So mikid ei, sem sendibréf; Enn þakklæti beri þessi skráin Þér, sem mig ifir spanska sjáinn Hafskipi fluttir heiman á, Og hreifst mig leidinda róli frá, Eg leitadi þín, því lá mér á, leingi varst' ekki ad seigja já, Jeg var þér Hrappur, þú

mér **Þráinn**, Og þvert ámóti kaupmanns sögum, Bodnum neitadir betaling, Sem firir mína framsiglíng Færa þér vildi buddan ríng, Enn eg skal þér seinna borga í bøgum.

Eg vildi kissa hann **Kolbeinsson**, Kanské hann sé hér ekki seingur, Enn hanns minníng ei undirgeingur; Ef í því væri nokkur feingur, Ad grátast, og heita gódur dreingur, hann á á þeirri virdíng von.

Ur **Hrappsei** ekki fer eg fet, Firr enn eg inn í bæinn leita, Efad konurnar kaffe heita, A hlódasteininn mig hjá þeim set, Staula sídan í stofu inn, Þar steudur optast glas á bordum, Ospart þad **Sigurdssonur** fordum Frambar og gladdi gésta sinn, Hvor gétur ekki munad hinn Géstrisna, fróma og góda manninn, **Gottskálksen** þar, sem biggir ranninn, Hvor bóndi príddi bú sitt þannin? Veri hún **Hrappsei** um þad sanninn, Hún stendur kirr og sínir sig. Hvad sé eg, ertu hédan lidin? Ættjistir mín! eg þrádi þig, Þú varst so hjartans-góð vid mig, Lifdu blessud og farðu í fridi.

O, **Breidifjørdur**! sæll þú sért, Og sælir þínir innbiggendur, Kríngum þig spenni hamíngjan hendur Hvervetna medan landid stendur, Enn mig hafa forløg illa ert, Ætíd mig þér ad flæma frá, Fødurlands án so reika má Nordur vid póla-beltin blá, Burt frá vinum og frændum keirdur, Hér í **Grænlendskum** greipum reirdur, Hvad illt hef eg þá af mér gért?

Ferdin er endud, eg med møk Ennþá er kirr á **Fróni græna**, So er þá horfin sjónin væna, og apturgángan er ordin spøk. Jeg hef ásett, ad árum tveim Ad irkja, færa, noldra og kveda (Því hvorki á eg hunda-sleda, hest, eda skip ad flitjast á) Mig til ikkar á **Island** heim, Upp í loptinu ræna sveim, Enn skáldgáfan mín vill þreitast þá, Og ef eg dala, drukna, søkk, Dei, vilja sumir halda, já! Ætl' eg sé þá med ollu frá? Mín kafnar aldrei sál í sjá, Þó finda ferjan veik og smá Med seglum, árum, reida og rá Hvolfist nidur í djúpin døkk, Hún, sálin hendir sig á støkk, Og ségir kannské góda þøkk, Fljúgandi allt hvad orka má Til **Islands** (vona

eg first) og þá Setst upp á vina sinna skjá, Kvedandi glad=vær frí og frekk. Skrokkurinn er og skinnid sjálft Med skir=bjúg og kuldabólgu sinni, Sveipadur hreina og sela skinni, Grænlendskur ordinn hálft um hálft, Enn hjartad, sem blaktir hlitt þar inni, Haldid þid ekki eg til þess finni? Med hverjum blóddropa Islenzkt er, Því vildi' eg bjargá' því, ef kinni, Þángad ad fóstur=jordu minni, Nú veit eg þó, ad sér=hver sér, Vid skrokkinn vill þad sig skilja eigi, Hann skilir því, og kauske' eg deji, Ef sína leid hvert á slæming fer, Því er þad augljóst, sem eg ségi, Sendt gét eg þad med ferdum eigi, A so laungum og ljótum veigi, Þó leidast því hérna veran meigi, Hjálpad eg ekki gét því greji, first þad af skrokknum skiptir sér; Æ, lifid heilir allir þér, Amen! pappírinn þrítur mér.

## 2. Til Ø. Sivertsen.

(Grænlandi 1833,)

Ögmundur! hvad þú manst til mín, Maunskrattans hérna í útlegdinni, Sem øllum sképnum er úr minni, O! ad eg gégnum loptid rinni, Líka sem áll í elfu sinni, Allursaman med hári og skinni, Vinur! í opna arma þín, So ausa þakklæti til þín kinni, Ordin þau eru máttarminni, Medtaktu samt af gódvild þinni Hérmed þakklæti þúsundfaldt, Firir þetta bréf, og gamallt allt, Firir dávæna dóttur þína, Sem dirfist eg nefna konu mína, Ástir á milli okkar hlína, Eins og þá sólargeislar skína A eld. Enn vita eitt þú skalt, Ad aldrei eg hennar meidóm snerti, Holdsfísnin þó mig eitrud erti, Og ..... mér verdi .... sem k....., I hídinu því eg held ávalt; Hennar eg kjærra kossa nit, Hún kvedur firir mig ástundum, Vasin í bádum mínum mundum, Med þad á sama kodda blundum, Anægju vid þad ærna fundum, Ef eitt=hvad fleira eg þarf hjá sprundum, Hreinskinna burna eg brikum S... Eg gét aungu launad Gétu þína, Gódi Vinur! í þetta sinn,. Enn hitt eg nedan á mér finn, Ad eignast mun brádum dóttir fína, Því eg er ad rita rollu mína, Og reiki eg aptur heim í løndin, Þau hvar mín blaktir einatt øndin,

Ef einhvers prentara ljæst mér hondin, Og ekki lifsins dagar dvína, Dirfist eg hana fólki ad sína; Firstt skal hún, vinur! verda þín. Nú ekkert meir af ljódum, laxi! Pó lagdur væri eg gégn med saxi, gét eg ei orkt, Þvi vantar vín.

### 3. Til Jómfrú R.....? S........

(Grænlandi 1832.)

Pú, hvorrar barndóms bros mig kjættu þrátt, So barn eg sjálfur æskti titt ad vera, Og hjartad þitt í brjósti mínu ad bera; Pú, sem fóstradir firr enn eg gat átt Barna greijin vid bragadísu minni, Sem bæklud og horud fæddust morgu sinni, Pú barst þau samt á brjósti og í minni, Blídlega vid þau lékst í kjoltu þinni, Elskadir þau sem eigin born so dátt; Pú, sem eg unni als sem gledja má, Ástvinar, heilsu, ríkdóms, lángra daga, Og hvers sem mætti óskum þínum haga! Pú skildir ekki oll mín kvædi fá, Eiga og kvæda medan eg fæ ad hánga, Einhvorstadar á itsta heimsinns tánga, Pó einatt meigi slæmast gotu lánga? O jú! eg þrisvar aptur first skal gánga, Enn eitt af þeim þér sneida meigi hjá; Og í því skini læt eg þessi fjúka, J vestan stormi af oddi Grænlands hnúka, Og óska þeim filgi gridar-vedrid mjúka, Uns ad þau flugi í fadmi þinum ljúka, Sem fóstru okkar brjóstum hvílir á, Pau eru stird og þau eru efnasmá, Pví lund min veltur sona til og frá, Hjúkradu þeim, og hirdtu um þau sem má, Hálfnita til ad gráta eda' brosa hjá, Vidkvæmni þina vakid máské fá Besældar hljódin barna minna þá, Árin þín fjolga og æsku dagar strjúka.

### 4. Til Kaupmanns Br. Benedictsen.

(Stikkishólmi 1835.)

Hávirduglegi heidursmann, Herra kaupmadur, vinur, frændi! J' allann gjærdag eg grét og mændi Um góda vedráttu í þaula bændi, Umbreitíngu samt einga fann; Utsinnínguriun er so brádur, Ad einginn er finna ferda rádur, Hann blæs og fennir eins sem ádur, Pó andvarpi eg af meinum

þjáður, Verður þú ekki var við hann? O, að þú mættir án þess vera, Offstopa hanns og kíngi að bera, Eða til þeirra hljóða hlera, Sem hofuðið á mér vitlaust géra, So ekkért meira' eg irkja kann. Jeg vildi fara að finna þig Í firradag, gjær, og núna líka, Samtali' hægt um hitt að slíka, Sem hæfir fátækum við þann ríka, Enn hornstranda veðrið hræðir mig. Hér verð eg því með stirðum penna, til þín að málá miða þenna, Enn mælgi allri niðurrenna, Og hávaðanum í hálsi mér. Nú biður þig mín sálma senna, Sigga að bjarga um hluti tvenna, Í brjósti' um mig sem barn að kénna, Firsta og besta bænin er; Og, besti frændi! því er ver, So pappírslaus eg sit nú hér, Sem sauðkind á vori ullarber; Hjálpaðu mér nú hvað sem skér; Í himninum veit eg launast þér; Ef þú stirkir mitt andlegt kver sem annars niður á bóginn fer.

Þér mun og hitt í hánka renna, Þegar skáldsíslin pappírslaus Fáráð sitja með fullann haus, frœðunum hreint þau niður tína, Nú láttu því við nauðsin mína, A náðar blöðum þínum skína, Kvæðin, sem eg hef til að tína, Trúfastar skulu bænir hlína Í þeim, sem kanské á þér hrína, Og aldrei láta krambúð þína Pappír og aðrar eignir dvína; Amen! skal eg hér neðan klína, Þá er nú búið þetta ráus.

## 5. Til Sira H. Arnórssonar.

(Stikkishólmi 1820.)

Ferðin okkar var fróðlegt grei, farið var dagsins ljósið bjarta, á hafsdjúpi viðu huldi flei, helvítis-aldrei þokan svarta, skakkhirnda króka skips fór leið, Skoreiaklett við þrisvar fundum, reiðir í þaula rérum við, rifustum so og þrættum stundum.

Við fundum mikið marga ei, menn géngu tíðum land að kanna, enn héruðin þekktu ítar-ei, augnanna sjón réð þokan banna, einginn vissi hvört leiðin lá, linuðust sumir til að róa, rifrildið óx og þrætan þá, þikkviðrið var-að dimma og gróa.

Við komum stóra eju á, og náðum þar á land að gánga; bundum við kletta bátinn þá, búflað meintum nú hér að

fánga, eidimörk var þar ein ad sjá, apturgaungur og nætur=dránga, eg vildi hverfa einni frá, út í þokunnar mirkrid lánga.

Virdtist þar flestum vistin aum, vid undan landi báti snérum, flæktustum inn í fossa straum, fram á steindránga mikinn rérum, stjökudum vid med stiggva lund, stód okkur aptan, minna framan, biltu oss so þau bölvud sund til baka, og þad var lítid gaman.

Í sömu eina apturrak, upp máttum þarna bátinn draga, eg mig þar lagdi apturábak, á milli tveggja sjöru=snaga, þeim blautu þarabíngjum á birgdi andlit med snitu klútnum, sofnadi' eg fast þar sem eg lá, því sopid hafdi eg ógn á kútnum.

Loks undir dag nam lída frá lángsama þokan vorum sjónum, hefdirdu séd mig, Hannes! þá, hundvotann upp úr sjörulónum, hristist eg eins og hrakid strá, hroklaðist fram ad kalda sjónum; varma kunni eg varla ad fá, því vetlíngum hafdi tínt af klónum.

Settum vér skip á salta lind, sveigdum ad broti ára spada, eldhardann bördum austanvind, uppeptir nádum firtir skada; endar sagan um okkar ferd, aumka mig vil eg feiginn láta, hún er sannlega harmaverd, heldurd' þú munir ekki gráta?

## 6. Til Madame R. V.

(Vestmannaeium 1825.)

Utan eium frá, einn hvar tórir sá, er minníng idar mæta geimir fremur þrátt í þánka sér og þádar velgjörder, þadan idur vinleg kvedja kémur.

Þegar um hólmann hér hvikull þokar sér bleikur máni milli dimmra skía, litar ljóssa hlíd ljóma sólin blíd, og undan henni fár og sorgir flía.

Þar er vænni víst, veit þad hvör sem gist hefur á búi Barkar—gömlu—stada, þar er allt og eitt indislega veitt, þar vér sáum garpa sitja glada.

Þángad líka er létt, léttann taka sprett, og spretta þar úr spori gjarda gélti, þar eg sveina sá, sveittum jórum á þjóta ifir lönd og lækjarbelti.

Hvergi hugnast ver, heim þá komid er, ærin fegurd eins er kríngum bæinn, sléttum eirum á, allt í kríngum þá, glansar móti hlídin øll og haginn.

Lídur lipur á léttann túnum hjá, silúngsfull á milli grænnra móa, gamau gé'sst ad sjá, gilsins børmum á, reini vidar grænir lundar gróa.

Á þá indis-slód ósk eg þessi ljód kvedju beri hjarta míns og hugar, þar sé þakklætid þráfaldt bundid vid, uns mig hinsta banafárid bugar.

## 7. Til Jómfrú G. J.

(Reikjavík 1823.)

Firir bón sríða þín, fallega skúlkan mín! laga eg ljód, :,: lukkan þér silgi sín, sjørs þar til stundin dvín, øblist þér audahlín umskipti gód. :,:

Hugurinn þó vill þrá, þau kvædalaun ad fá, únga audarbrú, :,: á kvøldin med kossa smá klappa og sitja hjá, vid hausinn á mér á adferdin sú. :,:

Limina litla ber, litføgur kinnin er, blíd augnabrá, :,: hrein og smá høndin er, hrínga sem strøndin ber, upp hoppar ønd í mér, á þad ad sjá. :,:

Rétt varin rótum frá rodnls er skjóta gná, sidug og sett, :,: fimlegum fótum á, falleg er snót ad sjá, fetin øll skjót og smá framstígur nett. :,:

Mætti' eg þig minnast vid og mér hjá þinni hlid til búa bed, :,: æ, eg kémst innan vid allur af þinni bid! nær skal eg finna frid fullsælu med? :,:

## 8. Til Jómfrú R. Sivertsen.

Lát nú þín úngu augu skoda, upphafsdag þinnar vistar hér, brosandi móti morgunroda máttu úr rúmi flíta þér, :,: kistu nú mømmu og babba blíd, sem blómstrum krína þína tíd. :,:

Í dag vill høndin módur mjúka mejuna færa skrúdann á, bestu føtin þú fær ad brúka, falleg verdur þún Rann-

veig þá; :,: kistu því mömmu og babba blíð, sem blómstrum krýna þína tíð. :,:

Líka sem blóm á bökkum tjarna, sem ber af öllum grasa=fans, skaltu í flokki fríðra barna framgánga nú og stíga dans; :,: mamma þín góð hann babba bað, barninu sínu að lofa það. :,:

Þegar þú verður þreitt að dansa, þig tekur mamma fáng sér í, breið þá af úngum ormum kransa, um hennar brjóst, og kiss' ání, :,: klappi þín litla mjúka mund á móðurkinn í blíðri lund. :,:

Þegar sá andi í þér vaknar, að alföðurs þekkja lærir ráð, og nær þú barndóms ára saknar, ef aldri skinsemdar getúr náð, :,: með ljúfum hug þá lofa hann sem líf og for=eldra gèfa vann. :,:

## 9. Til Stúlku.

Þér víl eg rósin leipturs lóna! lítinn skilnaðar gèfa saung, þér máttu slíka temja tóna; :,: ef tíðin stundum verður laung. :,:

Látum saungnorna dans oss dilla báfríðum lífsins morgni á, látum oss aungva vellíst villa, :,: vorri saklausri skèmtun frá. :,:

Þó stundum sætum þúngum kjörum, og þiki brigðullt lukku=hjól, undan mótlætis skía skörum :,: skína kann stundum gleði=sól. :,:

Í forlaganna fleigistraumum fara hvör verður so sem má, við gaungum fram í duldum draumum :,: dimmum lífstunda feril á :,:

Ekki er vert að augað síti, né ifir leingi klaga því, þó sameinuð hjörtu sundurslíti :,: svartra forlaga dimmu skí. :,:

Þótt við að sinni þessu skiljum, og þægri sambúð ei meigum ná, allá lífdaga' eg veit við viljum, :,: velferð hvört annars heira fá. :,:

Lifðu í friði, fljóðið dæla! í fjærlægum auðnum gleimdu mèr, hvíli hjá þér sú síðsta sæla, :,: sem nú þinn vinur óskar þér. :,:

## 10. Til Jómfrú S........

Þegar eg laga ljóð, leiðindin hverfa frá, helst þegar firir fljóð frambera kvæðin má, og þegar þér til handa; S........ sæ að skrifa skrá.

Tár vor og harmahróp hans eingin þóknun er, sem allt til lindis skóp okkur á jordu hér, náttúru nógleg gjæði hann bíður: glediumst við það vér.

Því lét hann sína sól sjóndeildar gilla hvel, því feingu blómstur ból blómleg um grundar mel, því skóp hann mann og meiju, því gérði hann allt gott og vel.

Hanns boð til okkar er: ánægjan vari frjó, njót þú og þakka mér, það allt eg fírir þig bjó, gleð þig í gáfum mínum hverjum einum, í hófi þó.

Hanns vísdóms vilji er, við meigum trúa því, að vér í veröld hér vakandi og sorgafrí farsældar fetum veiginn, grandvarlegleik og gleði í.

Hrindum því hrigðarstund hvenær sem ber oss að, stúlkan mín! ljúf í lund, látt' okkur semja' um það, njótum náttúrugjæða, okkur var það so úthlutað.

## 11. Samhenda.

Hugurinn þráir það, sem fá Peigi má eg núna, Það er að sjá og faðmað fá, Foldu bráins búna. Flutti sjáar bilgjan blá Burt á mái húna Mig, enn þá í brúnir brá. Er bauga dáfríð rúna, J hinsta ná mig sinn að sjá, Sagdist á burt snúna, Með kjærleik há við kalda lá, Kisti eg smáa frúna. Veik so frá með bleika brá, Brikin náins túna, Gleðin hjá mér datt í dá, Drós nær sá burtslúna; Víða má eg vera um stjá, Og væta skjái brúna, Hún er frá eg þagna þá, Þessa skrá að rúna.

---

# B. Ljóðabréf.

## 1. Til Gísla Konráðssonar.

(Reikjavík 1823.)

Skal ei mál eg minnist þess, máls að faungum leita, og svidrir stála senda vess, sem eg náði heita.

Einföld bragar búnin er, boðin kvæða vinum, lukku-dagar lísi þér, líkt og skáldum hinum!

Þó sína reini á ljóðum lit, sem lofa forðum gérði, eg vil meina ódarrit efnalítið verði.

Ef spirja frétta ferðu mig, fjalars báta sendir! eg skal sletta þá í þig því, sem næst er hendi.

Seggir eirðu sitt við strand og sendann feing af guðum, marsvín keirðu menn á land, mjög nær sex hundruðum.

Mikill fjandi' á ferðum var fiska sára að keira, fjöru-strandir fjölmennar flutu í klárum dreira.

Hvali skáru skatnar slein, og sképtum brandi stúngu, nold-rnðu bárur náhljóðs vein, nötruðu strandir þúngu.

Bragnar allir æstu skoll, að eggja svalli knúnir, dvergmál gall í dofraholl, dunuðu fjallabrúnir.

Mörgum snauðum þarft var það, sem þángað ægir leiddi, þeim var dauðum unnið að eins og maginn beiddi.

Samt hér grátin þjóðin þreir, þrautum barin hörðu, andarlátinn g ó ð i G e i r grafinn var í jörðu.

Honum unna í hvörjum stað hlínir klæða gjörðu, hann var kunnur heiðri að á himni bæði og jörðu.

Höldar senda harmagrát, hugir bresta vonar, fjöllin enduræpa lát I s l a n d s besta sonar.

Flitur það í fréttum hér ferðabeima skarinn, sísslumaður D e f j o r d er í aðra heima farinn.

Í jökulflóði ferill háll firða ríka tepti, í sömu móðu Síra P á l l sál úr líki slepti.

Eins fékk daga endalíkt og frá vinum skildi smiður braga B e n e d i k t, sem báðum hinum silgdi.

Þegar í móðu síðast svam, og síst var par að vona, orkti hann ljóð, enn einginn nam, efnið var þó sona.

Andæpti skáld | skilja skóp
upp úr móðu: | skamt er að landi
frammi eru feigs götur | brosir bakki mót.

Eg nær frétti efni úr brag, af einum hjá sem stæði, gat eg sett í ljúflíngs lag látinns bana kvæði.

Sudur í Gardi tilfèll tjón, tírum úngu skjalda, sundurkardi borda ljón brimi þrúngin alda.

Á mjalburs veri máttur hlés mastrid sundurkreisti, ball á skéri bliki trés, botninn undanleisti.

Bilgjan skall um bordin kát, og bilja hardur andi, farmenn allir brutu upp bát, og borgid vard ad landi.

Fært í letri frèttir þèr fleiri ei getur bagan, kominn vetur úti er, ekki er betri sagan.

Jordu gleipa frostin frá fróns á slelpum túnum, fannir steipast frónid á, fjøllin hleipa brúnum.

Snjóa hrinja heingjurnar, hladast kinjum dalir, sjóar drinja dísirnar, dverga stinja salir.

Eingu kvída eigum þó, auki hrídir baga, seggir bídi í sælli ró sumars blídu daga.

Af mun hrinda ólundum og auka lindiþ spaka, þá Danir sinda drómundum djarft ad strindi klaká.

Þá skal dansa og drekka vín og dofna sansa vekja, nær sumar glansar sólin fín, sorga fans mun hrekja.

Jord þá mænir sjálig sól og sviptir tjaldi lødurs, þá mun grænum klædast kjól kona galdrafødurs.

Þá sjómenn fara sudur hér, settum þar á tímum, eina bara óska eg mér af Hervarar rímum.

Þann eg sálminn þó til vel, þundar álma brádir, þar sem skálma áttu el Oddur og Hjálmar bádir.

Beit eg góð þín vísna spjøll verda um þjódir slísa, þegar í blódug boda-føll biltast jódin rísa.

Hér í brjóta blad eg vinn, bid þú hljótir gjædi! læt nú þrjóta þar um sinn þetta ljóta kvædi.

Um ártal vardar ekki par eda gard þann biggi, enn saman bardi bøgurnar Breldafjardar Siggi.

## 2. Til Síra H. Arnórssonar.

(Reikjavík 1824.)

Siniskorn af sauugvanorna málum, dags á morgni mætum fer, málvin forni! ad rita þér.

Þó má flæda þundur glæda skilja, mér, þó fræda formi kver, fátt til kvæda verdur hér.

Þó má skrifa þér: eg lifi sona, lukkan bifar sífeldt sig, samt ei ífirgéfur míg.

Nóg ad eta og næturslet eg hefi, allt þad met med andar-ró, audgast gét ei fremur þó.

Kallinn Bakkus bídur svakk ástundum, já! eg þakka og játa þér, eg hanns kfakki hlídinn er.

Augnavotur opt til snotra kvenna, mér til nota í mirkri dró, marghriggbrotinn er eg þó.

Nú er eptir allt um glettur drauga, og næturhettu hundspottin, hefur þú frétt þad? lagi minn!

Um midjann vetur Mr. Pétur beikir ílla lét, því ára-lid ætladi ad jeta manngrejid.

Dormadi vætur dúr um nætur þrennar, dreíngur mæti er draugsi fann, því djöfulls lætin ærdu hann.

Eg var bedinn burt ad kveda drauginn, enn hvad sem skédi um hendíngar, hann ei sédur tídar var.

Þegar vofan var úr stofu sláin, fékk ad sofa geiglaust grei, eg gét þó lofad manninum ei.

Mér hann stefndi, mátti' eg hefndum kvída, pappír klemdi lögun á, kotum nefndi búa frá.

Ad hanns þvættíng þeigi gjætti réttur; því sakarvætti vanta réd, vid þad hætti draugsmáled.

Þennann Pétur þekkt þú gétur varla, hann adsetur Hrappsei á, hafdi vetur ferna þrjá.

Þadan fór á þóptu jór til Hafnar, jómfrú (v. madame) Þórun þekkir hann, þennann stóra afreksmann.

Þú ert kvændur, þad er í vændu máské, ad þér hændu hríngaslód, hún er, frændi! væn og góð.

Njóttu betur enn nokkur gétur bedid, blad hér set eg innaní, og úr letri donsku sní.

Þú mátt færa þinni kjæru bladid, vildi læra Þórun þad, þiki mér æra og gaman ad.

Alsrádandi ikkar bandi trigda ævarandi leggi lid, lukkan standi á alla hlid.

Hvad á ad seigja, forløg fleigja okkur, eins og heji í hardvidri, hels ad deigi kastandi.

Ad lifa kátur, líst mér máti bestur, þó ad bjáti eitthvad á, ad því hlátur géra má.

Vertu sæll! þinn svarinn þræll og vinur, sá er barda blindvidur, Breidafjardar Sigurdur.

### 3. Til Jómfrú J. J.

Þegar þú fer ad fága blad, first er þessi vari: veldu þér út vænann stad, vel so um þig fari.

Píkan úng sé pennavønd, piltarnir hann skéra, láttu aldrei létta hønd á lopti fá ad vera.

Firir þér snúdu riti rétt, med reglu á línu skili, ordin verdi áframsett, øll med millibili.

Manna og dira heiti hvert, húsa, borga og stada, first med stórum staf sé gért, so stillinn lídi ei skada.

Líka velji vísid úngt, so verdi skriftin betri, ætíd næstann eptir púnkt, einn af stærra letri.

Þér eg greini þessi ljód, þeigi í lagi fínu, edalsteina rósin rjód, rétt ad gamni mínu.

Mér ef géta munni af meinlaus fallid kvædi, hugsum ekki um skatna skraf, skémtum okkur bædi.

Hæglát gledi hreifir ró, henni er ljúft ad þjóna, medan úngdóms árin frjó okkar høfud króna.

Þeinktu medan úng þú ert, med æskublóma nítum: ellin seinna gétur gért grátt úr raudu og hvítu.

Hefur jafnan hósid lof, høfum þad í minnum, kjætin géngur ifir of, opt og mørgum sinnum.

Vori þinna ára á, ad því máttu gjæta: veikt er hold, og vilja þá villugøtur mæta.

Þar ad higgja held eg vert, hvad sem þú vilt géra, ad þad meigi opinbert allra sjónum vera.

Hrædstu, þá menn hrósa þér og hörunds litnum bjarta, fárlegra því ekkert er úngra kvenna hjarta.

Vertu öllum vidmótskát med vinabrögdum þínum, haf þó ætíd gaum og gát á gédshræríngum þínum.

Hitni þér um hjarta rót þá horskir sveinar mæta, varadu þig og vertu fljót vitsmunanna ad gæta.

Þó er ekki þarmed sagt, þad í ljódum mínum, ad þú géfir aldrei slakt á ástar-taumi þínum.

Gott er ad eignast gódann mann, gjörum þad ei efa, þó er best þú þekkir hann, sem þú vilt hjartad géfa.

Stunda bígd um æsku á eisu flóda þilja, himin-bigda kóngur klár, krínir gódann vilja.

Ofar stjörnum himinns há hédan þegar förum, lofar börnum sínum sá svasúdlegum kjörum.

## 4. Til G. Sveinbjörnssonar.

(Reikjavík 1823.)

Sá sem þandi himinn há, haf og landid skapti, reki graud og þúnga þrá þrimla sanda runni frá.

Þorna sveigir! þér eg fær þulid eigi fréttir, adrir seigja allar þær, er um veiginn gánga nær.

Þad er sama um þeirra hér þvættings tama sladur, hin óframa mærd frá mér meira gaman verdur þér.

Ur Njardvíkum fregn sú fer, fiskur þar er rekinn, marhnút líkur mikid er, mángi slíkann þekkir hér.

Alnar lángur apturmjór, uggar beinastórir, horn frá-gánga heila kór, haus er fángalega stór.

Jtsti halinn blakkaun bjór ber, enn haus er hvítur, er síValur apturmjór, ugga-valur kosta stjór.

Húdin ljós er uggum á, eru tennur lángar, gét eg hrósad, garpar sjá giltar rósir vaungum hjá.

Á laugardaginn nóg var neid næstann firir Pálma, þjód á æginn þandi greid þá í blæa logni skeid.

Allt var hæda hvolfid blátt med heidis gjæda skíni; enn ský nam lædast lítid grátt, sem leppsuslæda í nordurátt.

Því eg auga glettið gaf, enn góðu spáði veðri, henti spaug þess eðli af, upp það flaug um stjornuhaf.

Heiðskír dagur himinn blá, hvolfið fór að lísa, nett upp slaga náði sá, enn nóttin draga tók sig frá.

Nær dagslísan loptið blá litaði hvítum fötum, ránardísin dimm og há úr djúpi rísa náði þá.

Vindaríki á mararmauk mjúku norðri sáði, enn af því striki inði lauk, í augnabliki sjórinn rauk.

Við það öldum ægis þraut áður fríður svipur, upp hríngföldum skjældum skaut, skulfu völdu ránar naut.

· Vinda undur rírðu ró, ruggudu duggubörnum, slitu sundur sléttann sjó, í slettum hrundi ránar nó.

Menn sem græði máttu á, meina reina veður, netum bæði og fiski frá, í sumi og æði kasta þá.

Hilur svæði hrönnin blá, hroða froðu spúði, bilur skjæði mönnum má, mein á græðis rönnum fá.

Blóðugum spír upp blöðrunum, bólginn ólgukjáftur, laxamírar löðrunum, lamdi á stíris fjöðrunum.

Skautaljón eitt skeiðandi, með skatna heitna fjóra gleipti tjónið greiðandi, ginið á sjónum freiðandi.

Fleji snaudu sleigði af kjöl, froðan boða stóru, seggir nauða særðir kvöl, svolgrudu dauðans kalda öl.

Fast nam steipast ólgan á, ára jóra hinna, lendíng hleixa feingu frá, fuglum keipa allir þá.

Eg í slíkum ógnabil, undan vinda látum kjöl um strik hinn kalda hil, Keblavíkur náði til.

Nú skal þrotin þetta sinn, þulan mála stirða, og samanbrotinn seðillinn, senn er þotinn póstinn.

Heill þig leiði heims á slóð, hlinur rínar mána! svaragreiður síst við óð, Sigurður Breiðfjörð endar ljóð.

---

## C. Brúðkaupsvísur.

### 1.

Því er nú gleði um glösin rauð, þar gumna situr val, hún endurkveður enda-traud, um endilángann sal :,: enn

hvað sá hljómur skal, :,: seig þú oss Braga blómalega gidja!

Eg sé með lotníng augna blíð, eins og heið ljómi sól, kjærleikans drottníng Freja fríð, á fagurligum stól, :,: sér fær hér búið ból, teníngum veltur tveimur milli handa. :,:

Fortúna situr henni hjá, hír er fríar ásján', sú hefur vit og vilja á, að veitist ellum lán, :,: enn hún er augna án, gleggt sér því ei hvað gefur kjæru vinum. :,:

Gullteníngana Freja fær, frú þeirri er vantar sjón, talar við hana hára skjær, með hírri vilnar bón: :,: „Hér bið eg verði hjón, teníngum báðum blind til þess þú kasta." :,:

Gullteníngum um borðið brátt, nú bilti gjæfuhønd, því mun ei lénast frama fátt, enn Freja á efstu rønd, :,: hátt les fram letrin vønd: þar Magnúsar og Póru nøfnin standa. :,:

Því er nú gleði um glasin rauð, þar gumna situr val, og endur-kveður enda-traud, um endilángann sal, :,: með blíðast bænatal, allir samsíngja: úngu hjónin lifi. :,:

## 2.

Á vordeigi firsta veraldar, úr vatni reis fágud jørð, græn og ilmandi blómstur bar og húsfæla dýra-hjørð; glóandi sólar gullreimar, gróandans vermdu svørð; allt loptið fullt af fuglum var, og framþuldi saungva gjørð.

Áfi vor gamli Adam stóð, agndofa' á jørðu þar, litaðist bæði um lønd og flóð, leit allar skepnurnar ekkast, tíngast og eignast ið, allt saman parað var, enn hann stóð þar á auðri lóð, einn sinnar tegundar.

Hljómaði rødd í hæðum, hvar heldi niskaptur sveinn: „það er allt gott vér gjørðum þar, gnægtir ei skortir neinn, maður þarf sér meðhjálpar, hann má ekki vera einn;" svefnhøggva á augu Adams bar, alveldis raddar heirn.

Uppvaknaður þá Adam var, algjørfa kvinnu sá, sinn eðlis maka þekkti þar, þúnglindi gleðin brá; allteins og vér hanns erfíngjar upp þeirri stundu frá, finnum til sannrar farsældar, því fagra kini hjá.

Alleins í Stikkishólmi hér, hamingjan gaf til ráð, Hjaltalín gat að heillum sér, hlutskipti bestu náð, Jensina Stelnbakk blíð, sem ber bigdarorð krónað dáð; fallin honum í faðma er; það farsæli drottinns náð!

## D. Eptirmæli.

### 1.

Vísin breiði eg blóð, því að blómstur ei á, ifir þá gröf, sem geimir moldir Ragnheiðar; mögu Boga, madame Gottskálkssonar; gullið er skært, þó í gröfu liggi, so er manndigða minníng.

Andi et líf, enn hismi hold, því leitar sérhvort sinnar veru, að sambúð þegar skilin eru; hégóminn er þá aptur mold, enn andinn, hann sér el enda veit, um undrafulla líður geima, þá lífið sig frá líki sleit, við ljósa skipti tveggja heima.

Orðróm sinn skilja eptir hér, afkvæmi það, sem leingi lifir laufgrónum jarðarsverði ifir, sálin og hold, þá sambúð þver; heill þeim er góðann gétið fekk, hann glæðir funa digða ljósum, hann rekur lesti á lægsta bekk, enn leiði hins dána skríðir rósum.

Parf eg að minna Ísland á, mín dána! feril digða þinna? mun dauðinn slokkva og ifirvinna ljós það, þú kveiktir londum hjá? nei, digðin lifa' í minnum má, enn mótgángs storma kostin linna, bæði á jorð og himni há, hún skín á nofnum vina sinna.

Sú hvorrar hold, enn digð ei dó, geimdi kosti í brjósti besta, blíðskap, gladlindi, hógværð mesta, meðaumkun, kjærleik, miskun, ró, ættrækin meðan anda dró, eins nákvæm móðir húss og gésta; hvorjum, sem nálægt henni bjó, hún gaf það átti, og visst bresta.

Afkvæmis þokk ei auðið var, fósturbarna hún fjolda átti, að frama og siðum þekkja mátti sérhvört þeirra, sem vonlegt var, þó enn dírstar dætur þrjár, sem digðir hennar lærðu æfa, þeim gégnum lífsins leingri ár líklega silgir hennar gjæfa.

Hana vissi eg eina, án óvina hér í veröld vera, vitni má sérhvor um það bera, sem hana að þekkja hafði lán; og hvor

mundi géta hatad þá, sem hógværd daglega nírri sveiptist, nei, vondskan horfdi hana á, hissa, adgjørdalaus og snelptist.

Ad henni sóktu margskins mein, enn ekkért hennar hjarta breitti, hún huggadi, fræddi, gladdi, veitti, því sú var hennar idja ein, so gégnum jelja sortu skí sólar glóandi ljósin skjótast, þau eru meir eda minna hlí, sem mátt hafa til ad gégnum brjótast.

Þú, mín Frawlidna! þig eg kved, aldar, kvenna og ættarprídin, uppbiggist nú og seinni tídin, dæmum þínum og minníng med; eg med þeim flokki feiginn er, (fjarlægur þó á Grænlands strøndum,) sem andvorp sendir á eptir þér, inn ad sælunnar bjørtu løndum.

2.

Lidin er þín litla æfistund, kjæra barn! og bættur allur treigi, blessa þig, enn gráta skal eg eigi, nú eg veit þú værri sefur blund.

Ef til lífsins endurvaknar þú, þegar duftid himins kraptar hræra, hljóta muntu eptir dúrinn væra, sælla og leingra líf, enn þádir nú.

Þannig dafnar dala fogur rós, medan varma og vokva nægann hefur, vænann ilm og fagra sjón oss géfur, badar sig vid sólar skjæra ljós.

Enn þá varir opt og tídum minnst, hretvidrin um heiminn vængjum lemja, hristast skógar; litlu stráin emja, og liljan fagra lidin, visnud finnst.

## Þridji Þáttur.

### Utleggíngar.

1.

Hníginn var sól í sjáfar fljót, sat Gunnhildur vid trésins rót, gellsa um tinda tunglid sendi, títt þángad upp hún hlustam vendi :,: vid fjallsins fót. :,:

Þá hiru rodd ei heirir sprund, sem helst til gledi vekur lund, og ei hvar Haralds ávarp gellur, því áin líkt og þrumu-hvellur :,: fram fer um grund. :,:

Hún seigir: elfa! hægt renn þú, til hagsældar mínum kjærleik snú, trubli þitt buldur ei mitt eira, æ, lát mig þessa roddu heira, :,: sætt kallar sú. :,:

Stutt eptir nætur midjann mund, á mirka skógar reid hann grund, „heil vertu, kjæra!" hann so talar, „handan í dal, þar mánlun svalar, :,: þinn fæ eg fund." :,:

„Kjærasti Harald! kom þú nú, mér kvída vekur hugsun sú, ad bjorninn kann þér kvalir minda, ó, kom! og heír, ad allir tindar :,: kalla, kom þú!" :,:

Jagthornid gall, fram rakki rann, hún veis á fót, „æ, þad er hann, slít þú, bergmál! minn fognud honum," og fjalla marglét í girdíngonum :,: hátt: „þad er hann!" :,:

## 2.

Þá vid kirlátt bóndans bú, bæld oll hjordin hvilir, og nætur hoggva hlífdin trú, hinum þreitta skilir, æ, þá velta ángurs tár, opt af særdum hvormum, medan svefninn bóndans brár, birgir lífs frá hormum.

James einn mér unnti heitt eg gaf þeim mitt hjarta, og mér var sú audna veitt, ósk hanns heira bjarta, sagdi hann: „þinn ástvin er ands ei nægdum gjæddur, hans ad leita eg frá þér fer, í fárid-sjós óhræddur."

Af so leid eitt ár med ró, una vel eg rédi, ellin mína módur dró mædda ad karar bedi, enn minn fadír arm sinn braut, okkar kú einn rænti, hann var fjærri, hvors vid skaut, huggunar eg vænti.

Róberts heilsun vinleg var, vid mig ást ad fala, ekki braud vid áttum þar, okkar þorf ad svala, alla daga eiddust grond, okkar hús hann nærdi, mína bad því hann um hond, hrigd mitt auga særdi.

Angurfullt mitt auga sá, út til sjáfar hilja, hjartans vin minn huldu þá, hrinur sjós og bilja, æ því-sokk eg ei

þad sinn, opnar hafs í gínur? því ei helsaung þuldu minu, þeirra vedra hrinur?

„Tak hann!" fadir mér baud minn, módirin stundi' í leini, bædi huga birgdu sinn, beisku minu kveini, jeg hlaut Róberts játa hond, enn James á mitt hjarta, þægt er bóndans þel og ond, þeijandi eg kvarta.

Gift eg fjórar vikur var, vafin tára flædi, sá eg þá einn svein er bar, sæta James klædi, eigi meinti eg þad hann, (ó min sorg frábæra!) uns eg heira ord þau vann: „elskar þú mig? kjæra!"

O þá kvol eg hrepti hér, hann med þogn brá litum, skindi koss hann skeinkti mér, skjótt so fundinn slitum. Og því blómgast heilsan há, hér á rósum kinn'a? því ei mátti eg þángad ná, hvar þrautir allar linna?

Um eg rafa indis snaud, ei má til hans þeinkja, heila verold er mér aud, ei kann gledi skeinkja; trú eg Róbert vera vil, vinlegt er hans hjarta, senn likst augad særda til, so þarf ei kvarta.

3.

Sá mann, er Plútus setti ríkur, silfurs ad geima tunnur þær, sem sína skatta saman drifur, og saddann aldrei kassann fær.

Hans akrar, skógar, eingjar, jardir, er' utan mál og tolu og prís, hans gardar, lundar, gáz og hjardir, gjora landid ad Paradís.

Þann heimskir rekkar ríkann feigja, eg reikna lán hanns armóds kjor; þú ein, mín kjærsta útvold meija! þú eina gledur Solons fjor.

Eitt gull, ei ríkdóm eg skal vluna, eg armur fæddist, líka tei, einasta kann eg audlegd finna, í ormum þínum, kjæra mei!

4.

Ofþúngur hjálmur minn er mér, minnst veitir skjoldur hlif, þad finn eg brátt, mér úngum er óvorum þrotid lif, legg þá sárbeittu leusu hér á legstad þess, hádi kif, enn líkhama minn í lund þann ber, hvar liggur hid fagra víf.

Eg lífsins besta lilju naut, lof veri, Freija! þér, kom dauði! í þitt kalda skaut kátur eg leggjast fer, mín únga sál! hræðst einga þraut, í upphæðir sveifla þér, upp þángað, hvaðan ofan flaut oll lífsins hagsæld mér.

5.

Biðlandi hirðarar blómsturin smá, ber ídar hvor heim til sinnar friðu, hyggið í kjærleiks hótum þá, hún það launi með sinni blíðu, von mín og laungun onnur er, ekki sem miður huga minn þó gleður, liljurnar tíni' eg, líka sem þér, :,: ljúfann minn fæður að krína þeim meður. :,:

6.

Svartnættis máni bak skýa sér skaut og skjálfandi stjornuljós tendti, vesthimins smáljós á villandi braut, frá vinkonu Alfi það bendti, :,: enn Lína líður í himin hátt. :,:

Og Ullur og Alfur þeir elskuðu sprund, enn Alf hafði kjærastann Lína, heiða troll skulfu við hetjanna fund, hátt súngu dalirnir: Lína! :,: enn Lína líður í himin hátt. :,:

Ullur í skógnum þá úngu tilbað, eins kurrar dúfan sú hvíta; „Alfi eg gaf mínar ástir," hún kvað, hans auga varð biturt að líta; :,: enn Lína líður í himin hátt. :,:

Morðvopnið flaug af hlus harðlinda hond, í hjartað á skjálfandi Lína, brosandi jómfrúin uppgaf því ond, sem einglar í bigð flitja sína, :,: enn Lína líður í himin hátt. :,:

Morðinginn sagði: „eg mirði þitt víf," magnast Alfs táranna bilgja, „flí, ef þú getur, þá geimdu þitt líf, því góðri eg brúði skal fílgja;" :,: og bæði líða í himin hátt. :,:

7.

Mitt fillta glas og fagra saungatóna, fróðlegt samtal og skémtið geð, eg aldrei sel fírir sjóla nokkurs tróna og Salómonis dírð og féð, því hátign lukku lénar ei, :,: líkist hvað oðru nær eg dei. :,:

Ódauðlegt nafn er ásjálegt að þiggja, enn ei það ver á

snaudra lód, mína í gröf það mold skal aldrei hriggja, þó mig ei kalli stórann þjóð, því eg mun í gröf, þá geimdur er, :,: gikkja heims lof og spottaner. :,:

Eitt vínhús svalt, eg óska mér tildæmist, hvar ölið geimist skadalaust, ámu, sem sillist aptur, nær hún tæmist, eitt inni veggja þétt og traust, eitt rólegt geð, sem gledi lér, :,: til grafarinnar filgi mér. :,:

En tunna gulls var ágjætt þíng að hafa, og ickja þár med vínhúsið, í jardar silsnum eptir henni grafa, það eftirlæt eg þeim með frið, sem ekki trúa, og ekki sjá :,: að örbyrgð stundum narrar þá. :,:

Næst því mér óska netta stúlku og blída, nefnilega, sem elskar mig, eitt heima lítið hús, með skikkun fríða; á heimsins lasta grónum stig, og börn sem eiga abl og þrótt, :,: og ecka mitt gladsinni rótt. :,:

Jeg sé það gløggt, vor jörð er bölfuð eigi, jeg fæ í öllum stödum blessan sjá, hún stígur upp af hafi, grær á veigi, og himni rignir ofan frá; varanleg heill er veralbar mál, :,: víns, kjærleikans og stúlkna skál! :,:

8.

Að slannglar hefjast á heidurs topp, að hræsnin sitnar og meinlaus líður, að ríkir upp eta aumra kropp að digdin nakin um stræti skríður, að brjósta krossar, og blindir tossar, með blídulátum hver ödrum hossar, :,: það sjáum þrátt. :,:

Við sem andvörpuðuð opt með mér þá undir kugadist digð og réttur, og hann sig í tign og heidri sér, sem húdinni ætti að vera slettur, þá bindumst tára, er síst fá fára þann sæg er himininn skapaði dára :,: gjörum oss glaðt. :,:

Þá móðir nætur mirkrið lá um meiginn jardar og þar var fridur, eitt ljós eg strax í austri sá, Guð Evan kom frá Gimli nidur, var lítið þveiginn, enn fullur, feiginn hann fótaber um hlídar veiginn :,: rann reikandi. :,:

Eg greip hans bikar og gleipti hratt, og gleimdi landi, og landsins dárum, eg fann að narrinn feigir satt, er sífelt hædir að frómra tárum, með sansa káta, eg fór ei gráta, og sannann födur Evan játa, :,: gjör' allir eins. :,:

9.

Að jardar gudir þeir skatt á skilja, enn skifta sér fátt af ödru vilja, því géf eg hvörki last né lof; enn hitt að þeir fólk sem flugur virda, og silkíngar láta í bending mirda, það kinni að vera þó um of.

Að kónga-börnum kjæti eidist, vid klæda skart er þeim

sjálfum leidist, því géf eg hvorki last né lof; enn ad þan sig heldur í ólund pína, enn í frjálsrædis bjartleik skína, þad kinni ad vera eins um of.

Ad stjórnarherrar í stroknu skinni, stórmerkjum lofa med sláu sinni, því vil eg géfa lítid lof; enn hitt ad menn ura heimska feita, og hjordinni einga næríng veita, bændunum þikir þad um of.

Ad Drottins þjónar hóta ad hefna, ef hrosun Davíds menn voga ad nefna, því géf eg hvorki last né lof; enn ad menn skuli first hérna heingjast, til helvítis so um eilífd sleingjast, þad kinni ad vera eitt um of.

Ad margir til ad mirda trega, mjødinn drekka so hressilega því géf eg hvorki last né lof; enn ad þeir berjast, blótast, rífast, vid bligdunarlaus ei verkin hlífast, þiki mér vera þó um of.

Ad menn sér una hjá mejum fridu, og málugir tala þeirra blídu, því géf eg minna last, enn lof; enn nær þeir sá sinn fullann vilja med silu vid þær aptur skilja, þad kinni ad vera eitt um of.

Ad bændur læra ad lesa og rita, líka nokkudí ségum vita, því géf eg ekki last, enn lof; enn ad þeir voga med athofn slæma alla hofunda og bækur dæma, þiki mér vera eitt um of.

Ad þeir hálflærdu heidur stunda, hreifilegir til manna funda, því géf eg hvorki last né lof; enn ad þeir kalla adra Dóna, sem ad þeirra heill og braudi þjóna, þiki mér vera eins um of.

Ad gamlir vilja únga sida, so ekki sindgi þeir til rída, því géf eg minna last, enn lof; enn ad þeir sjálfir æsa pretti, og hina firra sínum rétti, þiki mér vera þó um of.

Ad gamlar jómfrúr sig gifta vilja, og gudsfégnar vid sinn meidóm skilja, því géf eg ekki last, enn lof; enn ad þær stúlkur úngar nída og med bakmælgi úr skinni hida, þad er sannlega þó um of.

Medalvegurinn víst er bestur, þad vantar mikid nær hann brestur, honum síng eg því háleitt lof; ad hætta látinu og grísku ad góla, enn gjøra sér firir hófid skóla, þad held eg væri ekki um of.

## 10.

O! þá moldin, andar híbílid, um þær dimmu stjørnulausu nætur, finnur eingann annann lífsins frid, enn þann grafar vonin skína lætur, þá er horfin heilla stundin flest, og harma elid verdur sopid mest.

Peigjum samt því veroldin ei veit, og vita ekki má, hvad brjóstid særi, sínum henni, sorg þó nagi heit, Ad sig á

vorum nauðugt brosið hræri, aumkun hennar ekki stoðar þá, allt okkold og stundum raunar slá.

Vondskan limsk og lág þó auki pín, og lífs tilfinníng kaunum þúngum særi, hátt upp ifir holu grafar skín, himinlífsins friðarboginn skjæri, eilífð sveiflar sigurflaggi hátt, sorga þegar dimmu eiðir nátt.

## 11.

(Úr þídsku.)

„Meðtakið, veröld," manna kinið viður, mælti Júpíter hæða stóll á, „skapaða hana skeinkja vil eg iður, enn skiptið öllu bróðurlega þá."

Strax hljóp hvør fram og hreif það taka skildi, hafði hin úngi og gamli starfa nóg, akurmaðurinn aldin plokka vildi, úngur riddar' þeisti fram á skóg.

Kaupmaður fór í krambúð inn að safna kjörgripa mergð sem fljótt í prísinn sté, hrópaði kóngur: „Hér á eg ei nafna, hvað sem eg bíð, það vil eg láta ské."

Skiptin þá vóru skéð á milli hinna, skáldið kom þángað öðrum síðarkum frá, enn nú var ifir allt ei meir að finna, því allir vóru búnir sitt að fá.

„Og því mun eg þá einn hér hlutlaus verða, þinn einka vin og trúlindasti þjón," so kvað hann hátt, og klogun náði herða, kom roðð sú fírir Jóvis háa trón.

„Þín draumaleiðsla þig hefur skérfi svíktann," þá mælti guð, „eg slíkt ei vakta kann, hvar varstu þegar heiminn lét eg skiptann?" — „hjá þér var eg," so skáldið svara vann.

„Festi eg augu' á andlits geislum þínum, og við himna samkvæði vandi hljóð, í þínu ljósi anda svaladi mínum, enn frá mér nümlnu gleimdi jarðar lóð."

Júpíter sagdi: „Jörð eg gaf þeim nitja, jeg á ei leingur neitt af henni nú, enn í minn himin ef að viltu vitja, hann verður opinn, nær, sem kémur þú."

---

Lesari! hvornig líst þér á?
mig lángar til við værum sáttir!
vertu so góður! veldu frá
vísurnar sem þú bestar kváttir,
verði að skémtun, vinur! þér,
vesælbar hljómur kvæða minna.
Smámunum lofað hef eg hér,
huri því einginn stórt að finna.

